bókarinnar né kostnaðarmaður hefðu skaðast á því, að láta frásögnina vera hér fyllri og yfirgripsmeiri.

Kaflanum um trú og goðadýrkun (bls. 15) hefði höf. verið betra að sleppa, úr því honum gat ekki tekist betur við hann en þetta. Hverju barni er kunnugt um það, sem þar stendur. Höf. gjörir ekki minstu grein fyrir allri þeirri fegurð, sem felst í hinni fornnorrænu goðatrú, og honum verður ekki að vegi að benda á eina einustu af þeim háleitu og djúpu hugmyndum, sem koma fram í goðasögnunum. Ekki getur hann kent það rúmleysinu einu saman, því hann tilfærir lélegt ágrip af ferð Þórs í Jötunheima, sem vel hefði mátt missa sig. Það er ágætt dæmi upp á smekkvísi höf., að hann einmitt skyldi detta niður á þessa sögu, þár sem úr svo mörgum fögrum sögum er að velja.

Í kaflanum: »Úlfljótur löggjafi og lög hans; alþingi sett á stofn« (bls. 22) bryddir þegar í upphafi á ónákvæmni. Af frásögn höf. er það helzt að ráða, að Úlfljótur hafi verið hvatamaður að því, að koma á allsherjarlögum fyrir landið, og að hann hafi tekið upp hjá sjálfum sér að ráðast í það. Fyrir þessu er engin sönnun, og eftir frásögninni í heimildarritunum er eðlilegast að hugsa sér það þannig, að menn hafi verið búnir að ráða ráðum sínum um þetta og síðan komið sér saman um að fela Úlfljóti framkvæmdirnar í þessu efni Í sama kafla (bls. 27) stendur: »Lögsögumaðurinu var merkastur embættismaður í hinu íslenzka þjóðveldi«. Hann var það, því hann var eini embættismaðurinn. Hann einn hafði embættisvald sitt frá sjálfri þjóðinni, þar sem hann var kosinn af fulltrúum hennar á þingi (lögréttunni). Goðarnir höfðu ekki sitt vald frá þjóðinni, hvorki frá þjóðfélaginu í heild sinni né frá nokkrum hluta þess, og voru því ekki embættismenn þjóðarinnar. Þeir voru héraðshöfðingjar, vald þeirra var upprunalega sjálftekið og síðan arfgengt Vald lögsögumannsins aftur á móti var honum í hendur fengið af þjóðinni, og þess vegna gat þjóðin takmarkað það svo og einskorðað eins og hún gjörði. Utan þings hafði hann eins og höf. drepur á, ekkert frekar að segja, en hann sem einstaklingur gat haft, hvort sem hann var lögsögumaður eða ekki. Menn skirðust meira að segja við að trúa nokkrum af hinum ríkari höfðingjum fyrir lögsögunni, af ótta fyrir því, að þeir mundu vaxa mönnum yfir höfuð. Þeir hyltust til að velja til þess starfa menn, sem ekki áttu mikið undir sér og ekki gátu haft nein skaðvænleg áhrif á þjóðmálefnin.

Í kaflanum um goðana (bls. 31) farast höf. þannig orð, að eigi verður annað séð, en að aðalstarf þeirra hafi verið innifalið í guðsdýrkuninni. En svo var eigi á þeim tíma, sem hér er um að ræða. Höf. tekur það hvergi fram, hvorki í þessum kafla né síðar, er hann minnist á þingskipunina (bls. 39), að þing og dómar stóðu í sambandi við öll höfuðhof, og að aðalstarf goðans var í því fólgið, að veita þeim forstöðu og að annast héraðsstjórnina yfir höfuð. Við blótveizlurnar í hofunum voru nátengdir allir lögfundir, einnig dómþingin, og var það haldið undir umsjón og stjórn goðans. Í hofunum var varðveittur hinn helgi stallahringur, sem var roðinn blóði fórnardýranna og allir lögeiðar unnir að, og dómsvaldið í sakamálum stóð í hinu nánasta sambandi við hofið

og blótin, svo að í upphafi féllu hugmyndirnar goðorð, þing og lögsagnarumdæmi hér um bil alveg saman.

Í nokkurs konar yfirliti yfir söguöldina (bls. 35) tekur höf. sér fyrir hendur að benda á ástæðurnar til þess, að þetta tímabil varð svo söguríkt og merkilegt. En honum tekst alveg furðanlega að læðast í kring um aðalástæðuna, án þess að nefna hana, hvort sem það nú er af því, að hann hefur ekki sjálfur gjört sér grein fyrir henni, eða það er sprottið af einhverjum öðrum dularfullum rökum. Hann minnist ekki einu orði á uppeldi æskulýðsins, stöðu einstaklingsins í þjóðfélaginu eða lífskjör manna yfir höfuð, en einmitt í þessu er fólgið aðalskilyrðið fyrir þeim eiginlegleikum, sem gjörðu tímabilið svo glæsilegt, viðburðaríkt og fjörmikið. Það voru ekki höfðingjarnir einir, sem sátu í dómum eða tóku þátt í löggjöf landsins, heldur voru það því nær allir frjálsir menn, sem ekki voru beinlínis í annarra þjónustu, og þó höfðingjarnir hafi óefað ráðið mestu þar um, höfðu hinir þó að lögum óskertan rétt til að beita atkvæði sínu og áhrifum eftir eigin geðþótta. Meðvitundin ein um það, að geta óhindrað notið sín, að vera talinn jafngildur hinum beztu mönnum, þegar til opinberra þjóðmálefna kom, þótt hvorki væri auð né ríki fyrir að fara, hlaut að vekja sjálfsþóttann hjá mönnum. Hver sá, sem hafði eitthvað fram yfir aðra, hvort það var heldur líkamlegt eða andlegt atgjörvi, vissi með sjálfum sér, að hann gat bygt hinar djörfustu framtíðarvonir á þessum grundvelli; þjóðfélagið lagði engin hindrandi bönd á hann. Í sjálfræðinu átti veggirnin sér greiðan leikvöll. Alt miðaði til að vekja hjá einstaklingnum meðvitundina um hans eigið manngildi. Á þessari tilfinningu byggist fyrst og fremst og undir niðri hið stórfengilega líf söguealdarinnar; til hennar aðallega eiga kostir og lestir þessa glæsilega tímabils rót sína að rekja.

Í kaflanum um brennumálin (þingið mikla bls. 61) segir höf., að ekkert þing sé jafnfrægt og þingið 1012. Það getur verið, að summum teljist svo til, en heldur er ég á því, að fáir séu á þeirri skoðun. Mér fyrir mitt leyti finst enginn efi geta leikið á því, að þingið 1000, er kristni var tekin í lög á Íslandi, sé miklu merkara. Þegar um söguviðburði er að ræða, metur maður sögulegt gildi þeirra eftir þeim áhrifum, sem þeir hafa á líf þjóðarinnar eða einstaklingsins, en ekki eftir því, hve mikill gustur stendur af þeim eða hve mikið mönnum finst til um þá í fljótu bragði. Þegar um þing er að ræða, þá er það þingið ómótmælanlega merkast, er ræður til úrslita þeim málum, sem beina lífi þjóðarinnar inn á nýjar menningar- og framfarabrautir, en ekki það, sem er hávaðasamast. En setjum nú svo, að menn vilji meta sögulegt gildi þingsins eftir því, þá veit ég samt ekki nema þingið árið 1000 beri af hinu einnig hvað það snertir. Því miður er ekki skýrt jafn nákvæmlega frá því í fornritum vorum og þinginu 1012, en ég held að hver maður, sem annars hefur nokkurt ímyndunarafl, hljóti að fara nær um, hve tilkomumikið það hefur verið. Hér er um málefni að tefla, sem stendur í sambandi við hjartans helgustu tilfinningar, og sem einmitt þess vegna vekur óslökkvanlegra hatur í mannssálinni en nokkurt annað málefni, þar sem flokkarnir standa andvígir hvor á móti öðrum. Menn standa þar albúnir að slíta með sér þjóðfélagsbandinu,

og þegar svo er komið, þá er sannarlega voði á ferðum. Heiðnir menn efna til mannblóta til sigurs hinum forna átrúnaði, en höfðingjar kristinna manna bindast því heiti, að helga guði líf sitt um tíma og eilífð, til framgangs hinum nýja sið. En þrátt fyrir hið brennandi hatur, heift og ofstæki, er þó löghlýðnin svo sterk á báðar hliðar, að þeir bæla niður hinar æstu tilfinningar, beygja sín dramblátu og þverúðarfullu hjörtu undir ok þeirra laga, sem þeir höfðu sjálfir sett sér, og gangast undir að hlíta úrskurði gjörðarmanns. Í sannleika! ég þekki ekki það þing, hvorki á Íslandi né annarsstaðar í heimi, sem verðskuldi meira frægðarorð en þetta þing, og maður verður að vera jafn stirðhentur og B. Th. Melsteð, til þess að geta ekki gjört mönnum það ljóst.

Í þessum frásögnum um söguöldina hefur höf. yfirsést að skýra frá hinum helztu höfðingjum landsins, mönnum, sem höfðu djúp og víðtæk áhrif á sinn tíma, eins og t. d. Snorri goði, Gizur hvíti, Guðmundur ríki o. fl. Hann nefnir þá aðeins lauslega á nafn í sambandi við þau mál og viðburði, sem hann er að skýra frá, en gjörir sér ekkert far um að einkenna þá hvern fyrir sig. Yfir höfuð að tala er lýsing höf. á söguöldinni lítt fullnægjandi. Honum tekst alls eigi að gefa mönnum verulega ljósa hugmynd um þetta glæsilega og svipmikla tímabil. Þær einustu hliðar af menningarsögunni, sem hann skýrir viðunanlega frá, er fyrirkomulag alþingis (bls. 39) og kaupmenn og siglingar (bls. 80). Fyrri kaflinn gefur allgóða hugmynd um alþingi og dómaskipun, og hefur höf. verið búinn að glöggva sig á því atriði fyrir nokkrum árum (sbr. Um alþingi í »Þrjár ritgjörðir«, Kh. 1892). Lýsingunni á verzlun og siglingum hefur hann gjört svo hátt undir höfði, að hann hefur varið til hennar rúmum 6 bls. Stafar þetta líklega af því, að hann endur fyrir löngu fékk sérstakan styrk til að rannsaka það mál, og ætlar nú að kvitta fyrir hann. Ekki getur það verið af því, að þetta atriði sé merkara en svo mörg önnur atriði í menningarsögu þjóðarinnar. Þessir 2 kaflar og svo kaflinn um Gretti Ásmundarson og skóggang (bls. 72) eru langskýrastir og bezt sagðir, og hefði betur farið, að höf. hefði haft fleiri slíka. Þó hef ég dálítið að athuga við kaflann um kaupmenn og siglingar. Höf. getur þess (bls. 82), að til þess að ná virðingu manna, þurftu menn að hafa eitthvað til síns ágætis »Það gat verið ýmislegt, en fátt veitti meiri virðingu en auðæfi. Fyrir hreysti, vígfimi og andlegt atgjörvi máttu menn og verða frægir«. Já, ég held það svari því! Sögurnar okkar eru frá upphafi til enda skrifaðar til að vegsama hreysti, vígfimi og andlegt atgjörvi, en ekki auðæfi. Það mun vera örðugt að benda á nokkurn söguhetju, sem hafi unnið sér virðingu manna og orðið frægur fyrir auðæfin ein eða mest fyrir þau. Að því er þetta snertir, finst mér kenna ónákvæmni hjá höf., en í stuttum alþýðuritum, þar sem ekki er rúm fyrir víðtækari skýringar, verður að vega hvert orð nákvæmlega, til að girða fyrir allan misskilning.

Þá hefur höf. máls á tímabilinu 1030—1118, sem hann kallar friðaröldina. Fyrstu kaflarnir eru um útlenda biskupa, Ísleif Gissurarson, Gissur Ísleifsson og Jón Ögmundsson, og er mun betur gengið frá þessum köflum öllum, en köflunum í fyrra hluta bókarinnar. Þó

finst mér það á vanta, að höf. minnist á skólana í Haukadal og Odda, sem einmitt um þessar mundir stóðu með miklum blóma og eru stórfrægir orðnir fyrir þau áhrif, sem þeir höfðu á bókmentir vorar og vísindalíf. Líklega ætlar höf. að geyma sér þangað til seinna að geta þeirra, því óhugsandi er að hann gangi alveg fram hjá þeim.

Síðasta frásagan í heftinu um viðskifti Magnúsar konungs berbeins (hvers vegna ekki »berfætts« eins og Snorri kallar hann) við Gísl Illugason og Íslendinga, sem höf. telur eitt hið glöggasta merki upp á þjóðernistilfinningu Íslendinga, er óþörf. Það eru ótal mörg dæmi á víð og dreif í fornsögum vorum, sem sýna og sanna fult eins vel og þetta, að þjóðernistilfinningin var sterk og lifandi hjá Íslendingum alt frá þeim tíma, er þeir mynduðu hjá sér lögskipaða þjóðfélagsheild. Þeir taka sig út úr hvað eftir annað sem tiheyrandi sérstakri íslenzkri þjóð, óháðri og óviðkomandi Norðmönnum. Þeir finna glögt til síns íslenzka þjóðernis og eru upp með sér af því, og það er jafnvel ekki laust við, að töluverður þjóðakritur og metnaður sé á milli þessara tveggja frændþjóða oft og tíðum. —

Ég skal fúslega játa það, að það var brýn þörf á því, að gefa út sögubækling, sem væri aðgengilegur og læsilegur og við alþýðu hæfi. Ég skal einnig játa það, að það er allmikill vandi að leysa það starf vel af hendi. Það, sem þörfin aðallega krefur, er gott yfirlit yfir sögu Íslands, og ætti þar sérstaklega að leggja áherzluna á samhengið í sögunni. Meðan ekki er til yfirlitssaga, sem tengir saman viðburðina í eðlilegri röð og skipar þeim innbyrðis í rétt samhengi hverjum við aðra, eftir þýðingu þeirra og sagnfræðislegu gildi, eru slíkir söguþættir til lítils gagns, einkum að því, er kemur til fornsögu vorrar. Vér Íslendingar erum alt öðruvísi settir en aðrar þjóðir í þessu efni. Vér getum fengið hverjum óbreyttum alþýðumanni í hendur okkar elztu heimildarrit, og hann hefur þeirra full not. Þar á ofan eru þau rituð af svo mikilli snild, að fæstir þurfa að láta sér koma til hugar að rita jafnljóst og aðgengilega. Að vera að hrifsa úr þeim kafla og setningar, til að stinga inn í rit hjá sér til smekkbætis, eins og rúsínum í blóðmörskepp, er grautargjörð, sem ekki er bót mælandi. Þar að auki eru frásögukaflarnir hjá höfundinum valdir að ýmsu leyti af handahófi, og hann hefur gjört sér alt of lítið far um að binda söguþráðinn vandlega saman. Að því er tímabilið snertir, sem hér er um að ræða, er ég á þeirri skoðun, að það hefði verið betra fyrir höf. að velja frásagnirnar orðréttar úr Íslendingasögum, því engin frásögn kemst í hálfkvisti við þær, og tengja við þær inngangskafla hér og hvar til skýringar og uppfyllingar, og vænti ég að bókin hefði þá orðið aðgengilegri. Eins og hún er úr garði gjörð, er hún hvorki söguleg heild né vel valdir eða vel sagðir þættir.

Frá útgefandans hendi er bókin einkar vel úr garði gjörð og myndirnar góðar. Þó er það að athuga, að fuglsmyndinni í rósabandinu á bls. 21 svipar meir til uglu en fálka. *Jón Jónsson.*

2. **Lýsing Íslands.** Ágrip eftir *Þorvald Thóroddsen*, dr. phil. Önnur útgáfa, endurbætt.

Fyrsta útgáfan af þessari bók þótti góð bók, enda er hún fyrir

löngu uppseld, sem sýnir, hve mikilli hylli hún hefir náð. Þegar höf. samdi hana, hafði hann þó ekki átt kost á að ferðast um landið að neinu ráði. En síðan hefir hann ferðast um land alt, bygt og óbygt, og þannig getað með eigin augum kynt sér landslag og landsháttu. Má því nærri geta, að hann hefir nú staðið margfalt betur að vígi með að gera þessa lýsing sína vel úr garði, enda leynir það sér ekki, að hún er stórum endurbætt í ýmsum greinum, þó hún sé ekki mikið aukin að stærðinni til, sem hefði heldur ekki átt við, þar sem bókin er aðallega ætluð unglingum sem skólabók.

Efnisskifting bókarinnar er þannig, að fyrst er lýsing á landinu alment (bls. 1—74), straumum, loftslagi, landslagi, jöklum, hraunum, eldfjöllum, hverum, laugum, ám, vötnum o. s. frv. Enn fremur eru þar sérstakir kaflar um jarðveginn og jarðmyndun landsins, um jurtaríkið og dýraríkið. Síðari kaflinn er um íbúa landsins (bls. 75—119), fólksfjölda, atvinnuvegi, mentun, þjóðfélagsskipun o. fl. Síðast er lýsing á helztu bæjum og öðrum merkisstöðum á landinu. Í bókinni eru 39 myndir og uppdrættir og allur frágangur hinn bezti. Yfir höfuð er bókin hin eigulegasta, og sannast að segja, ætti hún að komast »inn á hvert einasta heimili.« V. G.

ALDAMÓT. IX. ár (1899). Winnipeg 1900. Það væri næsta eðlilegt, að »Aldamót« hefðu á liðnum árum unnið sér almennar vinsældir með hinum mörgu og góðu ritsmíðum, er þau hafa flutt lesendum sínum. Vér Íslendingar höfum ekki svo mörg tímarit um þessar mundir, og þau fáu, sem vér eigum, ættu því að sæta góðum viðtökum, sérstaklega ef þau eru góð og vel úr garði gjörð í alla staði; en það hafa »Aldamót« jafnan verið frá því fyrsta, er þau hófu göngu sína. Vér höfum nú fengið níunda ár þeirra. Þetta ár byrjar með fögru kvæði eftir séra V. Briem, er hann nefnir »Ísrael og Ísland«. Sem einkunnarorð fyrir kvæði þessu, hefur hann valið orð úr Biblíuljóðunum: »Ó þú Ísalands þjóð, guðs Ísrael norður í höfum«. Í kvæðinu rökstyður hann svo þessi orð sín, með því að sýna fram á, hvernig sögu Ísraelslýðs, að mörgu leyti, svipar til sögu þeirrar þjóðar, sem nú býr »norður við heimskaut í svalköldum sævi«.

Því næst kemur fyrirlestur eftir séra N. St. Þorláksson: »Að lifa«. Fyrirlestur þessi ræðir um það, hvernig menn eigi að lifa þannig, að líf þeirra hafi nokkurt sannarlegt gildi, og er það efni, sem hverjum hugsandi manni hlýtur að liggja alvarlega á hjarta. Ræðumaður bendir fyrst á, hvernig lífsfýsnin og lífslöngunin sé gróðursett hvervetna í hinni lifandi náttúru, svo að »alt, sem lifir, lifa girnir«.

Hann sýnir fram á, hversu eðlilegt það væri, að samfara þeirri lífsfýsn og lífslöngun væri ánægja með lífið, enda sé þessu líka í raun og veru svo varið hvervetna í ríki náttúrunnar, nema hjá oss mönnunum. En þar komi oft lífsóánægjan í stað lífsánægjunnar; lífsleiðindin í stað lífsgleðinnar. En ástæðan til þessa sé sú, að mennirnir skilji ekki hinn rétta tilgang lífsins, þekki ekki hin sönnu lífsskilyrði, og einmitt þess vegna þurfi þeir að læra »að lifa«. En þegar kemur til þess, að kenna mönnum það, þá dvelur ræðumaður of lengi við hin ósönnu lífsskilyrði. Æskilegt hefði verið, að ræðumaður hefði þegar

vikið að hinum sönnu lífsskilyrðum, og í sambandi við þau að eins stuttlega drepið á hin ósönnu. En margt er vel sagt í fyrirlestri þessum, og fátt er þarfara, en að leiða athygli manna að því, að nema þá list, sem erfiðust er, en jafnframt þýðingarmest, listina að lifa.

Því næst kemur: »Guðlegur innblástur heilagrar ritningar« fyrirlestur eftir séra Björn B. Jónsson. Fyrirlestur þessi fer í þveröfuga átt við skoðanir þær á sama efni, sem nú eru uppi víða meðal lærðra guðfræðinga í lúthersku kirkjunni, og vér Íslendingar höfum fengið framsettar í »Verði ljós«.

Þetta mikilvæga málefni, hefur þá í íslenzku kirkjunni verið rætt frá tveimur gagnstæðum hliðum. En þá vaknar líka eðlilega sú spurning: hvorum megin liggur nú sannleikurinn? Það verður ef til vill hlutverk 20. aldarinnar að svara þessari spurningu.

Þá kemur »Minning siðabótarinnar« ræða eftir séra Jón Bjarnason, og þótt ekkert sé annað en gott um ræðu þessa að segja, þá hefðum vér þó búist við meiru, þegar annar eins ræðusnillingur og séra Jón Bjarnason tók sér jafnmikilfenglegt efni fyrir hendur.

Því næst koma 5 kvæði úr »Palmblätter«, hinu fræga ljóðasafni eftir þýzka trúskáldið Karl Gerok, í íslenzkum búningi eftir Matthías Jochumsson. Séra Matthías hefur áður þýtt mörg kvæði eftir sama höfund, og á hann miklar þakkir skilið fyrir það. Það væri mjög ánægjulegt, ef vér Íslendingar með tímanum eignuðumst meginpartinn af þessu fræga ljóðasafni á tungu vorri. Og leyfum vér oss að óska þess, að séra Matthías Jochumsson í »Aldamótunum« haldi áfram þessu fagra starfi sínu, að gjöra hið mikla þýzka trúskáld þekt á meðal landa vorra. Þá koma »Afsakanir og autt rúm«, ræða eftir séra Jónas A. Sigurðsson. Það er lagleg ræða, en það er ekkert sérstakt við hana að öðru leyti En ræður finst oss, að ættu því að eins að vera teknar í »Aldamótin«, að þær að einhverju leyti séu frumlegar og sérstakar í sinni röð. Loks koma hinir venjulegu ritdómar eftir ritstjóra Aldamótanna, séra Friðrik Bergmann. Minnist hann þar á flestar nýjar íslenzkar bækur, sem út hafa komið á árinu. Ritdómar þessir eru mjög vel ritaðir, og margar bendingar eru þar gefnar, sem vert er að taka til greina.

Vér viljum að síðustu leyfa oss að vekja eftirtekt landa vorra á því, að ágóðanum, sem verða kann af sölu Aldamótanna, á að verja til styrktar hinni fyrirhuguðu skólastofnun Íslendinga í Vesturheimi. Þeir, sem vilja styðja að því, að íslenzk tunga og íslenzkt þjóðerni haldist sem lengst meðal landa vorra í dreifingunni vestra, ættu því að styðja þetta fyrirtæki, sem er svo þýðingarmikið í því tilliti. En það fá þeir á engan hátt fremur gjört en með því, að kaupa sjálfir Aldamótin, og greiða götu þeirra bæði hér og heima. **J. Þ.**

SWEDENBORG: UM HINA NÝJU JERÚSALEM OG HENNAR HIMNESKU KENNINGU. New York 1899. Enn eitt trúvinglsritið höfum vér fengið á íslenzku Það er eftir hinn alkunna trúvinglsmann Swedenborg, og hefur skólastjóri Jón A. Hjaltalín unnið það afreksverk, að snúa því á íslenzku. En með því að alt trúvingl er Íslendingum fjarri, þá má ætla, að ritlingur þessi falli ekki í góðan jarðveg,

og er bættur skaðinn. Það er annars undarlegt, að skynsamir menn skuli verja tíma sínum og kröftum til að þýða annað eins rit og þetta, þar sem nóg er til af öðru þarfara og betra. Og vér viljum vona, að þegar herra skólastjórinn næst tekur sér fyrir hendur að þýða bók af útlendu máli, þá verði hann heppnari í valinu. J. Þ.

---

# Íslenzk hringsjá.

---

NYJAR ÍSLENZKAR UPPGÖTVANIR. Því fer betur að nú er farið að glaðna töluvert yfir náttúruþekkingunni á Íslandi, og ungir íslenzkir vísindamenn gjöra sitt til að halda uppi sóma landsins í þessu efni. Á hinum síðustu árum hafa Íslendingar ritað margar merkar ritgjörðir um náttúru Íslands, en þeirra er sjaldan eða aldrei getið í blöðum eða tímaritum. Í þessu efni er »Eimreiðin« heiðarleg undantekning. Það hefir hingað til þótt mikils vert, hafi fundist á Íslandi einhver tegund dýra eða jurta, sem ekki hefir fundist í því landi áður, en því merkara er það, þegar tegundir finnast, sem eru algjörlega nýjar fyrir vísindin og hvergi hafa fundist í heiminum áður. Bjarni Sæmundsson adjunkt hefir nærri Reykjavík fundið »hveljupólýp«, mjög einkennilegan, sem var svo ólíkur öðrum, sem áður þektust, að Bjarni varð að gefa honum nýtt kyns- og tegundarnafn og varð skírnarheitið *Auliscus pulcher*. B. S. hefir lýst dýri þessu (sem er af marglittu-flokki) á latínu og dönsku í »Videnskabelige Meddelelser fra Naturhistorisk Forening« Kbhavn 1899, bls. 425—427, og gjört myndir af skepnunni. Á sama stað hefir Bjarni ritað um ýmsa sjaldgæfa, íslenzka fiska og um beinhákarl. Helgi Jónsson hefir hin seinni ár ritað margar ágætar ritgjörðir um grasaríki Íslands og stórmikið aukið þekkingu vora um jurtalíf á Austfjörðum og Snæfellsnesi; hann hefir og fyrstur manna rannsakað vor- og haustgróður á Íslandi. Sérstaklega hefir H. J. fengist við að safna þarategundum og rannsaka þær, og var sú grein hinnar íslenzku grasafræði því nær alveg ókunn áður; mun innan skamms vera von á riti um þarafræði Íslands frá hans hendi. Meðal annars hefir H. J. fundið á Íslandi þarategund *(Rhodochorton islandicum)*, sem er ný fyrir vísindin, og að mörgu merkileg að eðli sínu; hinn ágæti, danski grasafræðingur dr. Kolderup-Rosenvinge hefir lýst þessari nýju tegund á frönsku í »Botanisk Tidskrift« XXIII. 1900.[1] Þá hefir enn fremur Helgi Pétursson gjört merkilegar jarðfræðis-athuganir á Suðurlandi, fundið ísrákað hnullungaberg og ísfægðar dóleritklappir milli móbergslaga, og er rannsókna hans annarsstaðar getið í þessu riti. H. P. hefir fyr ritað um jarðfræði Þjórsárdals, um Baulu, um ísaldarmenjar á Grænlandi o. fl. Það er sómi og ánægja fyrir oss Íslendinga, að vér eigum svo vel víga vísindamenn, sem engu síður en útlendir fræðimenn eru færir um að fást við örðugar vísinda-rannsóknir. Þegar öllu er á botninn hvolft, höfum vér

---

[1] Note sur une Floridée aérienne (Rhodochorton islandicum nov. sp.). Bot. Tidskr XXIII. bls. 61—81, með 17 myndum.

Íslendingar, frá því Eggert Ólafsson og Sveinn Pálsson voru uppi fram á þenna tíma, unnið miklu meira að náttúrurannsókn Íslands en allir útlendingar til samans. Þetta á líka svo að vera. Þá höfum vér lagt vorn skerf til alþjóðlegra vísinda, höfum sýnt, að vér erum sjálfbjarga og eigum tilkall til borgararéttar í heimi náttúruvísindanna, þó vér séum lítil þjóð og fámenn.

Blöðin íslenzku geta aldrei um störf íslenzkra vísindamanna, hvorki í fornfræði, málfræði eða náttúrufræði, og aðeins um örfáar bækur af þeim, er út koma; þyrfti þó ekki mikið rúm til þess að geta þess, sem gjört er. En ef ómentaður, enskur »túristi« lætur svo lítið að geta íslenzkrar þjóðar, eða íslenzkrar náttúru, er það undir eins lotningarfylst látið »á þrykk út ganga« (þó það sé eintóm vitleysa). Ef útlendingur ætti að dæma um menningarstig Íslendinga eftir blöðunum einum, væri hætt við, að hann fengi þá skökku skoðun, að vér værum andlega forpokaðir vesalingar, sem hvorki þektum vísindi né bókmentir, en værum altaf að rífast, oftast um hlægilega smámuni; og þó eru margar ágætar greinar í íslenzkum blöðum innan um. Þýzkur fræðimaður sagði eitt sinn við mig, að »það væri auðséð á íslenzku blöðunum, að hólmgöngur og einvígi ekki tíðkuðust úti þar«, og ég er líka hræddur um, að margur ritstjórinn fengi rifið skinn, ef hólmgöngur væru aftur í lög leiddar á Fróni.

Þær raddir heyrast nú oftar en fyr, að »bókvitið verði ekki látið í askana«, og er það satt frá þeirra sjónarmiði, sem hafa »asklok fyrir himin«. Ég hefi heyrt suma segja, að vér Íslendingar hefðum ekki »ráð á« að fást við vísindi, en þá höfum við heldur ekki »ráð á« að vera til. Vér höfum nú hímt á horriminni um margar aldir og höfum þó haft virðingu annarra þjóða. Hvers vegna? Sökum hinna andlegu starfa vorra; bókmentirnar hafa haldið oss upp úr svaðinu, án þeirra værum við bara skrælingjar. Nú þegar hið verklega er að lifna við hjá oss, megum við ekki gleyma hinu andlega lífi, sem við eigum alt að þakka. Kostnaður sá, sem þjóðin þarf að leggja til bókmenta og vísinda, svo þau haldist nokkurnveginn í horfinu, eru smámunir einir í samanburði við önnur útgjöld þjóðfélagsins, og þessir smámunir munu bera margfalda ávexti í bráð og lengd. Sú smáþjóð, sem ekkert leggur til alþjóðlegra vísinda eða alþjóðlegrar menningar, mun ávalt verða í fyrirlitningu hjá stórþjóðunum, hve vel sem hún annars er efnum búin. Ef vér Íslendingar viljum halda virðingu vorri og þjóðerni, er fyrsta skilyrðið, að vér hlynnum að hinum andlega gróðri, sem oft getur sprottið fagurlega úr hrjóstrugum jarðvegi, og er auk þess undirstaða allra farsællegra framfara. Vér ættum líka jafnan að hafa í huga, það sem Konungsskuggsjá segir: »ef úáran verðr á fólkinu eða á siðum landsins, þá standa þar miklu stærstir skaðar af; því at þá má eigi kaupa af öðrum löndum með fé hvárki siðu né mannvit, ef þat týnisk eða spillisk, er áðr var í landinu«.

*Þ. Th.*

HELGI PÉTURSSON: THE GLACIAL PALAGONITE-FORMATION OF ICELAND (í »The Scottish Geographical Magazine« 1900, bls. 265—293).

Eftir að búið var að prenta greinina um móbergið í þessu hefti Eimr.,[1] hefir hin vísindalega skýrsla Helga Péturssonar um rannsóknir hans sumarið 1899 komið á prent. Þar er ýtarlega og vel sagt frá hinum einstöku athugunum og er ritgjörðin að öllu samtöldu mjög vel af hendi leyst. Ályktanirnar, sem höf. dregur út af at-

[1] Bæði þessi og undanfarandi grein voru ritaðar í fyrra og áttu að koma í 3. hefti af VI. árg. Eimr., en sökum rúmleysis varð að láta þær bíða þangað til nú.
RITSTJ.

hugunum sínum eru þó eðlilega hinar sömu, eins og í hinni íslenzku grein, en framsetningin öll er miklu vægari, snotrari og liprari. Í ensku ritgjörðinni er líka getið um margt af því, sem vér höfum fundið að hér að framan, að höf. ekki nefnir í hinni íslenzku grein, og er það mikil bragarbót. Það hefði verið heppilegt, hefði þessi ritgjörð komið fyr út en hin íslenzka og að fleiri sannreyndar athuganir, sem höf. byggir á, hefðu komið fram í Eimreiðargreininni. Þótt vér af sömu ástæðum, sem fyr hefir verið greint, ekki föllumst á hinar víðtæku ályktanir um myndun móbergsins, þá erum vér höf. þakklátir fyrir hinar mörgu góðu lýsingar á jarðmyndun Hreppanna og vonumst eftir góðu áframhaldi. *Þ. Th.*

TVÆR SÖGUR FRÁ ÍSLANDI (»To Fortællinger fra Island«) heitir bók, sem málfræðingafélag eitt í Khöfn, »Selskab for germansk Filologi«, hefir gefið út (Khöfn 1900). Er það dönsk þýðing á sögunum »Upp og niður« og »Vonir« eftir *Einar Hjörleifsson* og hefir cand. mag *H. Wiehe* þýtt þær, sami maðurinn, sem þýddi sögur Gests Pálssonar hérna um árið. Er þýðingin hið bezta af hendi leyst, enda þýðandinn svo vel að sér í íslenzkri tungu, að hann bæði talar hana og ritar fullum fetum. Framan við þýðinguna er laglega ritaður inngangur, þar sem skýrt er frá aðaldráttunum í nútíðarbókmentum vorum og síðast yfirlit yfir æfiferil Einars Hjörleifssonar og ritstörf hans, og telur hann Einar fremstan allra núlifandi manna, er fengist hafa við að rita skáldsögur á Íslandi. Hann hælir og mjög stíl Einars og máli og getur þá ekki um leið stilt sig um að senda Guðmundi Friðjónssyni hnútu, þar sem honum meðal annars farast svo orð: »Og så hans (ɔ: Einars) sprog. Jævnt og naturligt, uden de kruseduller og skabagtigheder, som nogle af de yngre som Guðmundur Friðjónsson har lagt sig efter, for dermed at dække over det tomme intet«.

Sögur Einars hafa fengið mjög góðan dóm í dönskum blöðum og hefir meðal annars dr. *Georg Brandes* lokið lofsorði á þær, einkum söguna »Vonir«, sem honum þykir snildarleg, en í »Upp og niður« þykir honum ekki eins mikið varið og ýmsum öðrum. *V. G.*

FORNNORSK OG FORNÍSLENZK BÓKMENTASAGA. Af þessu mikla riti próf. *Finns Jónssonar* er komið út 1. h. af 3. bindinu (en kallað 4. h. af 2. b. á titilblaðinu). Er í því fyrst skýrt frá norskum og íslenzkum sagnaritum fyrir daga Snorra, síðan kafli um Styrmi fróða Kárason, þá um Snorra Sturluson sjálfan og um frænda hans Sturlu Þórðarson og að síðustu um sagnarit eftir þeirra daga fram að 1300. Er lýsing höf. á mannkostum Snorra og manneðli næsta ólík því, sem áður hefir tíðkast, og sjálfsagt að mörgu leyti réttari, þó ekki virðist laust við, að hin maklega aðdáun fyrir honum sem sagnaritara hafi stundum ef til vill leitt höf. til að gylla hann helzt til mikið sem mann, og finna jafnan nægar afsakanir og varnir gegn öllu, sem hingaðtil hefir verið fundið Snorra til foráttu. *V. G.*

HAUKSBÓK, hið alkunna ritsafn með því nafni, hefir nú verið gefin út í heilu lagi á kostnað »Hins kgl. norræna fornritafélags« og hafa þeir prófessor *Finnur Jónsson* og *Eiríkur* sál. *Jónsson* (fyrv. varaprófastur á Garði) búið hana til prentunar, og hinn fyrnefndi ritað langan og ýtarlegan inngang (139 bls.) um Hauk lögmann Erlendsson, sögu bókarinnar og lýsing á henni, innihald hennar og þýðingu. Bókin er safn af ýmsum ritum, er Haukr lögmaður Erlendsson († 1334) hefir safnað, afskrifað og látið afskrifa, og er sumt þýtt; flest þessi rit hafa áður verið út gefin einstök, en bókin hefir ekki fyr verið gefin út í heilu lagi. Helztu ritin eru: Land-

náma, Kristnisaga, Trójumannasaga, Bretasögur, Hemingsþáttur, Hervararsaga, Fóstbræðrasaga, Eiríks saga rauða og Skáldasaga; þar að auki ýms heimspekileg, helgifræðisleg, landfræðisleg og náttúrufræðisleg rit, samtals 20 rit. Bókin er mjög merkileg og útgáfa þessi af henni einkar vel úr garði gerð í alla staði; handritin, sem víða eru lítt læsileg, mjög nákvæmlega (stafrétt) afskrifuð og prentuð. Aftanvið eru skrár yfir mannanöfn (eftir Eirík) og staðanöfn o. fl. (eftir próf. Finn). *M. P.*

LANDNÁMABÓK er nýlega út komin (1900) á kostnað »Hins kgl. norræna fornritafélags« og hefir prófessor *Finnur Jónsson* búið þá útgáfu til prentunar og samið innganginn, sem er um handritin, uppruna bókarinnar og lýsing á henni.

Hér er hver bókin á eftir annarri, og er fyrst sú Landnámabók, er »ritaða Haukr Erlendsson eptir þeirri bók, sem ritat hafði herra Sturla lögmaðr, hinn fróðasti maðr, ok eptir þeirri bók annarri, er ritat hafði Styrmir hinn fróði, ok hafða ek (segir Haukr) þat ór hvárri, sem framar greindi, en mikill þorri var þat, er þær sögðu eins báðar, ok því ekki at undra, þó þessi Landnámabók sé lengri en nokkur önnur«. Síðan kemur Sturlubók, sem Sturla Þórðarson ritaði, en síðust er Melabók (brot), er samin mun (eftir tilgátum próf. Finns) af Snorra lögmanni Markússyni († 1313). Bók sú, er Styrmir hefir ritað, er töpuð. Auk þessara þriggja bóka eru ýmsir viðaukar (útdrættir úr öðrum fornritum) og nafnaskrár, og hefur stud. mag. Björn Bjarnason samið þá, sem er yfir mannanöfnin.

Útgáfa þessi er eins úr garði gerð og sú af Hauksbók og samsvara báðar kröfum tímans að vísindalegri nákvæmni og öllum frágangi, enda eru þær meðal hinna beztu, er til eru af nokkurum fornrita vorra. *M. P.*

SNORRA-EDDA er og nýlega út komin í nýrri útgáfu eftir prófessor *Finn Jónsson* (Khöfn 1900). Hefir tilgangur hans verið sá, að gefa hana út sem líkasta því, er hún kom frá Snorra eigin hendi, og hefir hann því rannsakað nákvæmlega og borið saman öll handrit hennar (sbr. Eimr. V, 233) og mun hann hafa náð tilgangi sínum. Þessi útgáfa hefir inni að halda Prologus (ɔ: formála Snorra), Gylfaginning, Skáldskaparmál og Háttatal, og auk þess 9 viðauka (Þórsdrápu, Gróttasöng, nafnaþulur o. fl.), lausavísur og kvæðabrot eftir Snorra, formála og nafnaskrá (með skýringum) eftir útgefanda. »Bragaræður« eru hér fyrsti kapítuli af Skáldskaparmálum, en »Eptirmáli« og allur þess háttar seinni tíma tilbúningur og viðbætir er ekki tekinn með, nema hvað sumt er sett í viðauka. Útgáfan er ekki með skýringum á textanum, en orðamunur handritanna er neðanmáls. Bókin er ágæt sem skóla-útgáfa og hennar full þörf, því að útgáfa Sveinbjarnar Egilssonar og Árnasjóðs-útgáfan eru báðar uppseldar, en útgáfa séra Þorleifs Jónssonar var aldrei úr garði gerð sem vísindaleg útgáfa. *M. P.*

UM ÍSLENZKAR NÚTÍÐARBÓKMENTIR er grein í tímaritinu »Hlídka« (Rijen 1900), sem rituð er á einhverju slafnesku máli, sem vér ekkert skiljum í, ekki svo mikið, að vér könnumst við nafnið á bænum (í hinum slafneska búningi), þar sem tímaritið er prentað. Ekki sést hver ritað hefir greinina, og eigi vitum vér heldur, hver sent hefir oss heftið, sem hún er í; en oss grunar að það muni vera séra Al. Koudelka í Nicolcic, sá er þýddi sögur Gests Pálssonar á böhmisku, því hann er kaupandi að Eimreiðinni, og greinin er mestmegnis um hana og þá höfunda, sem í hana hafa ritað, þó líka sé minst á ýmislegt fleira. Ritstjóri tímaritsins heitir dr. Pavel Vychodil. *V. G.*

# Hið sameinaða eimskipafélag.

## Áætlun um strandferðir á Íslandi 1901.

— ——

### *I. Vestur um land:*

| Skálholt | 1 | | 2 | | 3 | | 4 | | 5 | | 6 | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B |
| | apr. | maí | maí | júní | júní | júlí | júlí | ág. | ág. | sept. | sept. | nóv. |
| rá Reykjavík . . | 15 | . . | 13 | . . | 11 | . . | 23 | . . | 26 | . . | 26 | . . |
| Reykjavík . . . . | . . | 10 | . . | 6 | . . | 16 | . . | 22 | . . | 20 | . . | 1 |
| á Akranesi . . . | . . | . . | . . | . . | 11 | 14 | 23 | 20 | 26 | . . | . . | . . |
| - Búðum . . . . . | . . | . . | 13 | . . | 11 | 13 | 23 | 20 | . . | . . | . . | . . |
| - Ólafsvík . . . . | 15 | 8 | 13 | 4 | 11 | 13 | 23 | 20 | 27 | 17 | 27 | . . |
| - Grundarfirði . | . . | . . | . . | . . | 12 | 13 | 24 | 20 | . . | . . | . . | . . |
| | | | | | | | | | | | | okt |
| - Stykkishólmi | 16 | 8 | 14 | 4 | 12 | 13 | 24 | 20 | 27 | 17 | 27 | 30 |
| - Hvammsfirði | . . | . . | 15 | . . | 13 | 12 | 25 | 19 | 28 | . . | . . | . . |
| - Skarðstöð . . . | . . | . . | . . | . . | 13 | 11 | 25 | 18 | . . | . . | . . | . . |
| - Flatey . . . . . | 16 | 8 | 15 | 3 | 13 | 11 | 25 | 18 | 28 | 16 | 27 | 28 |
| Patreksfirði . | 17 | 7 | 16 | 3 | 14 | 11 | 26 | 17 | 29 | 16 | 28 | 28 |
| - Tálknafirði . . | . . | . . | . . | . . | 14 | 10 | 26 | 16 | . . | 15 | . . | . . |
| - Bíldudal . . . . | 18 | 7 | 17 | 3 | 15 | 10 | 27 | 16 | 30 | 15 | 29 | 27 |
| - Dýrafirði . . . | 18 | 6 | 17 | 2 | 15 | 9 | 27 | 15 | 30 | 14 | 29 | 26 |
| - Önundarfirði | 18 | 6 | 17 | 2 | 15 | 9 | 27 | 15 | 30 | 14 | 30 | 26 |
| - Súgandafirði | . . | . . | . . | . . | 15 | 9 | 27 | 15 | . . | . . | . . | . . |
| - Bolungavík . . | . . | . . | 17 | 2 | . . | . . | 27 | 15 | . . | . . | . . | . . |
| | | | | | | | | | | | okt. | |
| - Ísafirði . . . . . | 20 | 6 | 19 | 2 | 17 | 9 | 29 | 15 | 31 | 14 | 2 | 26 |
| - Aðalvík . . . . | . . | . . | 19 | 1 | 17 | 7 | 29 | 13 | . . | . . | . . | . . |
| | | | | maí | | | | | | | | |
| - Norðurfirði . | . . | . . | 19 | 31 | . . | . . | 29 | 12 | . . | . . | 2 | 24 |
| - Reykjarfirði . | 20 | 4 | . . | . . | 17 | 6 | . . | . . | 31 | 12 | . . | . . |
| | | | | | | | | | sept. | | | |
| - *Steingrímsfirði* | 21 | 4 | 20 | 31 | 17 | 6 | 30 | 12 | 1 | 12 | 3 | 23 |
| - *Bitrufirði* . . . | . . | . . | . . | . . | 18 | 6 | 30 | 12 | 1 | . . | . . | . . |
| | | | | | | | ág. | | | | | |
| - Borðeyri . . . | 23 | 4 | 22 | 31 | 20 | 6 | 1 | 12 | 2 | 12 | 5 | 21 |
| - Hvammstanga | . . | 2 | . . | . . | 20 | 4 | 1 | 10 | . . | . . | . . | 18 |
| - Blönduós . . . | 24 | 2 | 22 | 29 | 20 | 3 | 1 | 10 | 2 | 10 | 5 | 17 |
| - Skagaströnd . | 24 | 1 | 22 | 28 | 20 | 3 | 1 | 10 | 2 | 10 | 5 | 15 |
| - Sauðárkrók . | 25 | 1 | 23 | 28 | 21 | 2 | 2 | 9 | 3 | 9 | 6 | 14 |
| - Kolkuós . . . . | . . | . . | . . | . . | 21 | 2 | 2 | 9 | . . | . . | . . | . . |
| - Hofsós . . . . . | 25 | 1 | 23 | 28 | 21 | 2 | 2 | 9 | 3 | 9 | . . | . . |
| - Haganesvík . | . . | . . | . . | 28 | 21 | 2 | 2 | . . | . . | . . | . . | . . |
| | | apr. | | | | | | | | | | |
| - Siglufirði . . . | 25 | 30 | 23 | 27 | 21 | 1 | 3 | 8 | 3 | 9 | 6 | 14 |
| - Ólafsfirði . . . | . . | . . | 23 | 27 | . . | . . | . . | . . | 3 | 8 | . . | . . |
| - Dalvík . . . . . | 26 | 30 | 24 | 27 | 22 | 1 | 3 | 8 | 3 | 8 | 6 | 13 |
| - Hrísey . . . . . | . . | . . | 24 | 27 | . . | . . | 3 | 8 | 4 | 8 | . . | . . |
| - Hjalteyri . . . . | 26 | 30 | 24 | 27 | 22 | 1 | 3 | 8 | 4 | 8 | 6 | 13 |
| Akureyri . . . . . | 27 | . . | 24 | . . | 23 | . . | 5 | . . | 5 | . . | 8 | . . |
| **á Akureyri** . . . | . . | 30 | . . | 27 | . . | 1 | . . | 8 | . . | 8 | . . | 13 |

Athugasemd um **strandferðirnar.** Á Búðir, Ólafsvík, Blönduós, Haganesvík, rimsey, Kópasker, Hornafjörð og Vík koma skipin því að eins, að því verði við skomið. - Frá Reykjavík og Akureyri fara strandskipin jafnan kl. 9 árdegis. Á öðrum stöðum er sá agur tiltekinn í áætluninni, er skipin megi fara í fyrsta lagi, en félagið ber enga ábyrgð á, þótt þau inni að tefjast svo, að síðar verði farið. Viðstaðan á millistöðvunum verður svo stutt, semt unt er.

# Áætlun um eimskipaferðir 1901 milli Kaupmannahafnar, Leith, Færeyja og Íslands.

*Frá Kaupmannahöfn til Íslands*

| | 1. | 2. | 3. | 4. | 5. | 6. | 7. | 8. | 9. | 10. | 11. | 12. | 13. | 14. | 15. | 16. | 17. | 18. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | Laura | Vesta | Laura | Laura | Ceres | Vesta | Laura | Ceres | Botnia | Vesta | Laura | Ceres | Laura | Vesta | Ceres | Laura | Vesta | Laura |
| **frá Kaupmhöfn** | 15 jan. | 1 marz | 5 marz | 14 apríl | 27 apríl | 11 maí | 26 maí | 11 júní | 22 júní | 2 júlí | 9 júlí | 27 júlí | 13 ág. | 6 sept. | 15 sept. | 27 sept. | 15 okt. | 16 nóv. |
| Leith | 19 — | 5 — | 9 — | 18 — | 1 maí | 15 — | 30 — | 15 — | 26 — | 6 — | 13 — | 31 — | 17 — | 10 — | 19 — | 1 okt. | 19 — | 20 — |
| Trangisvaag | | | 11 — | 20 — | | 17 — | | 17 — | | | 15 — | | 19 — | | | 3 — | | 22 — |
| Thorshavn | 22 jan. | | 12 — | 21 — | | 18 – | | 17 — | 28 júní | 8 júlí | 16 — | 2 ág. | 19 — | 12 sept. | | 4 — | 21 okt. | 23 — |
| Klaksvig | 23 — | | 14 — | 22 — | | 19 — | | 18 — | 29 — | | 16 — | 3 —* | 20 — | | | 5 — | | 24 — |
| Berufirði | | 9 marz | | | | | | | | 9 júlí | | | | | | | | |
| Fáskrúðsfirði | | 9 — | | | | 21 maí | | | | 10 — | | | | | | | 23 okt. | |
| Eskifirði | | 10 — | | | | 21 — | | | | 11 — | | 11 ág. | | 14 sept. | | | 24 — | |
| Norðfirði | | 10 — | | | | | | 20 júní | | 11 — | | | | | | | 24 — | |
| Seyðisfirði | | 12 — | | | | 22 maí | | 21 — | | 13 — | | 12 ág. | | 15 sept. | 24 sept. | | 25 — | |
| Vopnafirði | | 13 — | | | | | | 21 — | | 14 — | | | | | | | 25 — | |
| Húsavík | | 14 — | | | | | | 22 — | | 15 — | | 13 ág. | | | | | 26 — | |
| Akureyri | | 17 — | | | | 24 maí | | 24 — | | 17 — | | 15 — | | | 26 sept. | | 28 — | |
| Siglufirði | | 17 — | | | | | | | | 17 — | | | | | | | 28 — | |
| Sauðárkrók | | 18 — | | | | 25 maí | | 24 júní | | 18 — | | 15 ág. | | | 27 sept. | | 29 — | |
| Skagaströnd | | 18 - | | | | | | 25 — | | 18 — | | 16 — | | | | | 29 — | |
| Blönduós | | 19 — | | | | | | | | 19 — | | | | | 28 sept. | | | |
| Borðeyri | | | | | | | | | | 20 — | | | | | | | | |
| Reykjarfirði | | 20 marz | | | | | | | | 21 — | | | | | | | 30 okt. | |
| Ísafirði | | 22 — | | | | 27 maí | | 26 júní | | 22 — | | 18 ág. | | | 30 sept. | | 1 nóv. | |
| Önundarfirði | | 23 — | | | | | | | | 22 — | | | | | | | | |
| Dýrafirði | | 23 — | | | | 27 maí | | | | 22 — | | 18 ág. | | | | | 1 nóv. | |
| Bíldudal | | 24 — | | | | | | | | 23 — | | | | | | | 2 — | |
| Patreksfirði | | 25 — | | | | | | | | 23 — | | | | | | | | |
| Flatey | | 26 — | | | | | | 27 júní | | 24 — | | | | | | | | |
| Stykkishólmi | | 26 — | | | | 28 maí | | 27 — | | 24 — | | 19 ág. | | | 1 okt. | | | |
| **í Reykjavík** | 27 jan. | 29 — | 18 marz | 25 apríl | 6 maí | 30 — | 4 júní | 28 — | 2 júlí | 25 — | 20 júlí | 21 — | 23 ág. | 18 sept | 3 — | 9 okt. | 4 nóv. | 29 nóv. |
| **Til Vesturlandsins:** | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| **frá Reykjavík** | 31 jan. | | | | 8 maí | | 8 júní | | 4 júlí | | | | | | | 12 okt | | |
| Stykkishólmi | | | | | 9 — | | 9 — | | | | | | | | | 13 — | | |
| Flatey | | | | | 9 — | | 9 — | | | | | | | | | 14 — | | |
| Patreksfirði | 1 febr. | | | | 10 — | | 10 — | | | | | | | | | 15 — | | |
| Bíldudal | 2 - | | | | 10 — | | 10 — | | 5 júlí | | | | | | | 16 — | | |
| Dýrafirði | 3 — | | | | 11 — | | 11 — | | 6 — | | | | | | | 17 — | | |
| Önundarfirði | 4 — | | | | 11 — | | 11 — | | | | | | | | | 17 — | | |
| **á Ísafirði** | 5 | | | | [illegible] | | [illegible] | | 7 júlí | | | | | | | [illegible] | | |

| | 1. Laura | 2. Vesta | 3. Laura | 4. Laura | 5. Ceres | 6. Vesta | 7. Laura | 8. Ceres | 9. Botnia | 10. Vesta | 11. Laura | 12. Ceres | 13. Laura | 14. Vesta | 15. Ceres | 16. Laura | 17. Vesta | 18. Laura |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| **Frá Vesturlandinu** | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| **frá Ísafirði** | 6 febr. | | | | 13 maí | | 13 júní | | 9 júlí | | | | | | | 21 okt. | | |
| Dýrafirði | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| Bíldudal | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| Patreksfirði | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| Flatey | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| Stykkishólmi | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| **í Reykjavík** | 8 febr. | | | | 15 maí | | 15 júní | | 10 júlí | | | | | | | 23 okt. | | |
| **frá Reykjavík** | 12 febr. | 3 apríl | 23 marz | 30 apríl | 18 maí | 6 júní | 18 júní | 3 júlí | 12 júlí | 31 júlí | 25 júlí | 26 ág. | 29 ág. | 24 sept. | 9 okt. | 26 okt. | 10 nóv. | 6 des |
| Stykkishólmi | | 4 — | | | | | | | | 1 ág. | | | 30 — | | | | | |
| Flatey | | 4 — | | | | | | | | 1 — | | | 30 — | | | | | |
| Patreksfirði | | 5 — | | | | | | | | 2 — | | | | | | | | |
| Bíldudal | | 5 — | | | | | | | | 2 — | | | 31 ág. | | | | | |
| Dýrafirði | | 6 — | | | | | | | | 3 — | | | 31 — | | | | | |
| Önundarfirði | | 6 — | | | | | | | | 3 — | | | | | | | | |
| Ísafirði | | 8 — | | | | 8 júní | | 5 júlí | | 5 — | | | 2 sept. | | 12 okt. | | | |
| Reykjarfirði | | | | | | | | | | 5 — | | | | | 13 — | | | |
| Borðeyri | | | | | | | | | | 6 — | | | | | | | | |
| Blönduós | | | | | | | | 5 júlí | | 7 — | | | | | 14 okt. | | | |
| Skagaströnd | | 9 apríl | | | | | | | | 7 — | | | 2 sept. | | 15 — | | | |
| Sauðárkrók | | 10 — | | | | 9 júní | | 6 júlí | | 8 — | | | 3 — | | 16 — | | | |
| Siglufirði | | 11 — | | | | | | 6 — | | 9 — | | | | | 17 — | | | |
| Akureyri | | 13 — | | | | 11 júní | | 8 — | | 11 — | | | 5 sept. | | 20 — | | | |
| Húsavík | | 13 — | | | | | | | | 11 — | | | | | 20 — | | | |
| Vopnafirði | | 14 — | | | | 12 júní | | 9 júlí | | 12 — | | | | | 21 — | | | |
| Seyðisfirði | | 15 — | | | 21 maí | 13 — | | 10 — | | 13 — | | | 6 sept. | | 23 — | | | |
| Norðfirði | | 16 — | | | | | | | | 13 — | | | | | 23 — | | | |
| Eskifirði | | 16 — | | | 22 maí | | | 10 júlí | | 14 — | | | 6 sept. | | 24 — | | | |
| Fáskrúðsfirði | | 17 — | | | 22 — | | | | | 14 — | | | | | 24 — | | | |
| Berufirði | | 17 — | | | | 13 júní | | | | 14 — | | | | | 25 — | | | |
| Klaksvig | 15 febr | | 26 marz | 3 maí | 23 maí | | 21 júní | | 15 júlí | | 28 júlí | | 8 sept. | 27 sept. | | 29 okt. | 13 nóv. | 9 des |
| Thorshavn | 16 — | 19 apríl | 27 — | 3 — | 24 — | | 21 — | | 15 — | 16 ág. | 28 — | | 9 — | 27 — | | 30 — | 14 — | 10 — |
| Trangisvaag | | | 27 — | 4 — | | | 22 — | | | | 29 — | | | 28 — | | | 15 — | 11 — |
| Leith | 19 febr. | 22 apríl | 30 — | 7 — | 27 maí | 17 júní | 25 — | 14 júlí | 18 júlí | 19 ág. | 1 ág. | 31 ág. | 12 sept. | 1 okt. | 30 okt. | 2 nóv. | 18 — | 15 — |
| **í Kaupmhöfn** | 24 — | 27 — | 4 apríl | 10 — | 1 júní | 21 — | 29 — | 18 — | 22 — | 23 — | 4 — | 4 sept. | 16 — | 5 — | 4 nóv | 7 — | 22 — | 20 — |

* Þaðan beina leið til Reykjavíkur, kemur þangað 6. ág., fer þaðan aftur 9. ág. suður um land til **Eskifjarðar.**

# Hið sameinaða eimskipafélag.

## Áætlun um strandferðir á Íslandi 1901.

———

### *II. Austur um land:*

| **Hólar** | 1 | | 2 | | 3 | | 4 | | 5 | | 6 | | 7 | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B |
| | apr. | maí | maí | júní | júní | júlí | júlí | ág. | ág. | ág. | sept. | sept. | okt. | [illegible] |
| **Frá Reykjavík**... | 15 | .. | 16 | .. | 10 | .. | 9 | .. | 7 | .. | 4 | .. | 3 | [illegible] |
| í Reykjavík..... | .. | 10 | .. | 6 | .. | 4 | .. | 3 | .. | 31 | .. | 29 | .. | [illegible] |
| frá Keflavík..... | .. | .. | 16 | .. | 10 | 3 | 9 | 2 | 7 | 30 | 4 | 28 | .. | [illegible] |
| — Vestm.eyjum . | 15 | 8 | 16 | 5 | 11 | 2 | 9 | 1 | 7 | 29 | 4 | 27 | 3 | [illegible] |
| — Vík ........ | .. | .. | .. | .. | 11 | 2 | 10 | 1 | 8 | 29 | .. | .. | .. | [illegible] |
| | | | | | | | | júlí | | | | | | |
| — Hornafirði ... | 16 | 7 | 17 | 4 | 12 | 1 | 10 | 31 | 8 | 28 | 5 | 27 | .. | [illegible] |
| — Djúpavog.... | 17 | 7 | 18 | 4 | 12 | 1 | 11 | 31 | 9 | 28 | 5 | 26 | 5 | [illegible] |
| — Breiðdalsvík.. | 17 | 6 | 18 | 3 | 12 | 1 | 11 | 31 | 9 | 28 | 6 | 25 | 5 | [illegible] |
| — Stöðvarfirði .. | .. | .. | .. | .. | 13 | 1 | 11 | 31 | 9 | 28 | .. | 25 | .. | [illegible] |
| | | | | | | júní | | | | | | | | |
| — Fáskrúðsfirði . | 18 | 6 | 19 | 3 | 13 | 30 | 12 | 30 | 10 | 27 | 6 | 25 | 6 | [illegible] |
| — Reyðarfirði .. | 18 | 5 | 19 | 3 | 13 | 30 | 12 | 30 | 10 | 27 | 6 | 24 | 6 | [illegible] |
| — Eskifirði ..... | 18 | 5 | 19 | 2 | 14 | 30 | 12 | 30 | 10 | 27 | 7 | 24 | 7 | [illegible] |
| — Norðfirði .... | 19 | 4 | 20 | 2 | 14 | 29 | 13 | 29 | 11 | 26 | 7 | 23 | 7 | [illegible] |
| — Mjóafirði .... | 19 | 4 | 20 | 2 | 14 | 29 | 13 | 29 | 11 | 26 | 7 | 23 | 7 | [illegible] |
| — Seyðisfirði ... | 21 | 4 | 22 | 2 | 16 | 29 | 15 | 29 | 13 | 26 | 10 | 23 | 10 | [illegible] |
| — Loðmundarf.. | .. | .. | .. | .. | 16 | 27 | .. | 27 | 13 | .. | .. | .. | .. | [illegible] |
| | | | | maí | | | | | | | | | | |
| — Borgarfirði... | 21 | 2 | 22 | 31 | 16 | 27 | 15 | 27 | 13 | 24 | 10 | 20 | 10 | [illegible] |
| — Vopnafirði ... | 21 | 2 | 22 | 31 | 17 | 27 | 15 | 27 | 13 | 24 | 10 | 20 | 10 | [illegible] |
| — Bakkafirði ... | .. | .. | 22 | 31 | 17 | 27 | .. | .. | 14 | 23 | 11 | 19 | 11 | [illegible] |
| — Þórshöfn .... | .. | .. | 23 | 30 | 17 | 26 | 16 | 26 | 14 | 23 | 11 | .. | 11 | [illegible] |
| — Raufarhöfn... | .. | .. | 23 | 30 | 18 | 26 | 16 | 26 | 14 | 23 | 12 | .. | .. | [illegible] |
| — Kópaskeri ... | .. | 1 | 23 | 30 | 18 | .. | .. | 25 | 15 | 22 | 12 | .. | .. | [illegible] |
| | | apr. | | | | | | | | | | | | |
| — Húsavík ..... | 23 | 30 | 24 | 29 | 18 | 26 | 17 | 25 | 15 | 22 | 12 | 19 | 12 | [illegible] |
| — Flatey ...... | .. | .. | 24 | .. | 19 | 25 | 17 | 25 | 15 | 21 | .. | .. | .. | [illegible] |
| — Grímsey ..... | .. | .. | .. | .. | 19 | 25 | 17 | 24 | .. | .. | .. | .. | .. | [illegible] |
| — Grenivík..... | .. | .. | 24 | 29 | 19 | 25 | 17 | 24 | 16 | 21 | 13 | 18 | 12 | [illegible] |
| — Svalbarðseyri. | .. | .. | .. | .. | 20 | 25 | 18 | 24 | 16 | 21 | 13 | 18 | .. | [illegible] |
| á Akureyri...... | 25 | .. | 25 | .. | 21 | .. | 19 | .. | 18 | .. | 14 | .. | 14 | [illegible] |
| **frá Akureyri**.... | .. | 30 | .. | 29 | .. | 25 | .. | 24 | .. | 21 | .. | 18 | .. | [illegible] |

Athugasemd um **ferðir milli landa.** Í Vestmannaeyjum verður komið við í hverri suður um land, bæði út og utan, svo framarlega sem því verður við komið. Eftir komu skipann Reykjavíkur sunnan um land verður einnig komið við í Hafnarfirði (nema í 12. ferðinni), þ nægilegan farm er að flytja þangað. Þegar sömu skilyrði eru fyrir hendi, geta skipin í þessum fer komið við á Akranesi, ef því verður við komið og full ástæða virðist til þess. — Frá Kaupman höfn fara skipin jafnan kl. 9 árdegis og frá Reykjavík kl. 6 síðdegis. Á millistöðvum er f fardagur tiltekinn, en farþegar mega búast við, að síðar kunni að verða farið. — Fargjald Íslands og útlanda er í 1. farrými 90 kr. (báðar leiðir 160 kr., nema milli Skotlands og Ísl 144 kr.) og í 2. farrými 60 kr. (báðar leiðir 100 kr.). Fyrir fæði greiðist á dag í 1 farrými 4 og í öðru farrými 2 kr. Hálfu minna fyrir börn.

## EFNISYFIRLIT.



---

# EIMREIÐIN.



RITSTJÓRI:

DR. VALTÝR GUÐMUNDSSON.

EIGENDUR: NOKKRIR ÍSLENDINGAR.

VII. ÁR. 2. HEFTI.

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTAÐ HJÁ S. L. MØLLER.

1901.

# Jens Hansen,

Vestergade 15, Kjøbenhavn K.

*Stærstu og ódýrustu birgðir i Kaupmhöfn af steypumunum*

**við hæfi Islendinga.**






GEYSISOFN (sîbrennandi) á 20 kr. og þar yfir.




Eldavél á 20 kr.

Sérstaklega mæli ég með *ofnum* með magazínbrenslu, með eldunarhólfi og hristirist eða án þeirra, á **18 kr.** og þar yfir, er fást í meira en 100 mismunandi stærðum. Ennfremur má nefna eldavélar með steikarofni og vatnskatli, 3—5 mjög stórum suðuholum, á **20 kr.** og þar yfir; þær má og fá þannig lagaðar, að þær megi setja niður lausar á mitt gólf með eða án múrhleðslu. Skipseldavélar í þilskip. Skipsofna og eldakompuvélar án múrhleðslu í skip og fiskibáta má fá með eldunarholum og magazínbrenslu. Ennfremur birgðir af steinolíuofnum



GEYSISOFN (sîbrennandi) á 35 kr. og þar yfir.




úr járni, kopar og messing, af nýjustu og beztu gerð, sem til er. *Ofnpípur* úr smíða- og steypujárni af ýmsri stærð. Járnglugga í húsþök og byggingar af alls konar stærð. Galvaníseraðar fötur og þvottabalar. Gleraðar og ósmeltar steikarpönnur og pottar. Gleraðar járnkaffikönnur, tepottar, diskar, bollar o. fl.

Yfir alt þetta er til verðskrá með myndum, sem send verður ókeypis hverjum þeim, sem lætur mig vita nafn sitt og heimili.

Hann lá á bekknum í veitingastofunni og dæmdi sjálfan sig. »Gústaf Berling, hempulaus prestur, ákærður fyrir að hafa drukkið upp eigur hungraðs barns, dæmist til dauða. Hvaða dauðdaga? Að deyja í snjónum.«

Hann þreif húfu sína og staulaðist út. Hann var hvorki vel vakandi né alveg gáður. Hann grét af meðaumkun með sjálfum sér, með vesalings svívirtu sálinni, sem hann var neyddur til að láta lausa.

Hann gekk ekki langt og veik ekki út af veginum. Rétt við veginn lá stór snjóskafl, þar fleygði hann sér niður, til að deyja. Hann lokaði augunum og reyndi að sofna.

Enginn veit, hve lengi hann lá þannig, en það var enn þá lífsmark með honum, þegar dóttir Brúbæjarprestsins kom hlaupandi niður veginn með ljósker í hendinni og fann hann í snjóskaflinum. Hún hafði beðið eftir honum tímunum saman, nú hafði hún hlaupið niður Brúbæjarhlíðarnar, til að vita hvað orðið hefði um hann.

Hún þekti hann strax, og svo fór hún að hrista hann og hrópa hástöfum til að reyna að vekja hann.

Hún varð að fá að vita, hvað hann hefði gjört af mjölpokanum hennar.

Hún varð að fá hann til að rakna við, að minsta kosti svo lengi, að hann gæti sagt henni, hvað hann hefði gjört af sleðanum og pokanum. Faðir hennar mundi sálga henni, ef hún hefði týnt sleðanum hans. Hún bítur hann í fingurna, klórar hann í framan og æpir sem örvita.

Þá kom einkver akandi eftir veginum.

»Hver rækallinn er það, sem hljóðar svona?« spurði hörkuleg rödd.

»Ég vil fá að vita, hvað karlinn hérna hefur gjört af mjölpokanum mínum og sleðanum,« sagði barnið kjökrandi og lét hnefana ganga á brjósti förumannsins.

»Er það hálfdauður maður, sem þú lemur svona? Burtu með þig, illfyglið þitt!«

Aðkomandi var há og þrekin kona. Hún sté af sleðanum og gekk að snjóskaflinum. Hún tók í hnakkadrambið á stelpunni og fleygði henni niður á veginn. Svo beygði hún sig niður, stakk handleggjunum undir bak förumannsins og lyfti honum upp, svo bar hún hann að sleðanum og lagði hann á hann. »Komdu

með til veitingahússins, illfygli litla,« hrópaði hún til prestsdóttur. »svo getum við heyrt, hvað þú veizt um þetta.«

* * *

Klukkustund síðar sat förumaðurinn á stól við dyrnar á fínustu stofunni í veitingahúsinu, og fyrir framan hann stóð frúin skörulega, sem hafði frelsað hann úr snjóskaflinum.

Svona, eins og Gústaf Berling nú sá hana, á leiðinni heim frá kolakstri í skóginum, með sótugar hendur og krítarpípu í munninum, klædda í svarta, fóðurlausa lambskinnskápu og röndóttan heimaunnin vaðmálskjól, með járnslegna skó á fótum og hníf í slíðrum stunginn inn á brjóstið, svona, eins og hann sá hana, með grátt hár, greitt slétt upp, yfir öldruðu, fallegu andliti, svona hafði hann heyrt henni lýst ótal sinnum, og hann vissi, að hann hefði hitt hina víðfrægu majórsfrú á Eikabæ.

Hún var voldugasta konan á Vermalandi, átti 7 járnnámur, var vön að skipa og láta hlýða sér; og hann var bara dauðadæmdur veslingur, allslaus, og vissi, að allir vegir voru honum of erfiðir, öll herbergi of lítil. Hann nötraði af ótta fyrir augnaráði hennar.

Hún stóð þegjandi og horfði á þessa ímynd mannlegrar eymdar fyrir framan sig; þessar rauðu, þrútnu hendur, þennan skinhoraða skrokk og þetta aðdáanlega höfuð, sem jafnvel nú, í niðurlægingu og vanhirðingu, var svo frumlega fagurt.

»Það er Gústaf Berling, vitlausi presturinn?« sagði hún spyrjandi.

Förumaðurinn sat grafkyr.

»Ég er majórsfrúin á Eikabæ.«

Það fór hrollur um förumanninn. Hann spenti greipar og leit upp með eftirvæntingarfullu augnaráði. Hvað ætlaði hún sér með hann? Ætlaði hún að neyða hann til að lifa? Hann óttaðist þrek hennar. Hann hefði þó verið svo nærri því, að öðlast frið hinna eilífu skóga.

Hún byrjaði bardagann með að segja honum, að dóttir Brubæjarprestsins hefði fengið aftur sleðann sinn og mjölið, og að hún sjálf hefði húsrúm handa honum, eins og svo mörgum öðrum húsviltum aumingjum, í »stásssveinastofunni« á Eikabæ. Hún bauð hon-

um að lifa í gleði og glaum, en hann svaraði, að hann yrði að deyja.

Þá lamdi hún hnefanum í borðið, og sagði honum meiningu sína afdráttarlaust. »Já, já, þú vilt deyja, það vilt þú. Ég skyldi ekki furða mig á því, ef þú bara værir lifandi. En líttu á þennan skinhoraða skrokk, á máttlausu útlimina og dauflegu augun og helddurðu svo, að þú eigir nokkuð eftir til að drepa. Helddurðu að maður þurfi endilega að liggja í líkkistu til að vera dauður? Trúir þú því ekki, að ég standi hér og sjái, hversu dauður þú ert, Gústaf Berling, dauður?«

»Ég sé þú hefur hauskúpu í stað höfuðs, og mér sýnast ormarnir skríða út úr augnatóftunum. Finnur þú ekki, að þú hefur munninn fullan af mold? Heyrir þú ekki, hversu hringlar í beinunum, þegar þú hreyfir þig? — Þú hefur drekt þér í brennivíni, Gústaf Berling, og dauður ertu. — Það, sem nú er eftir af þér, er bara beinagrind, og henni viltu ekki lofa að lifa, ef slíkt getur kallast líf? Það er alveg eins og þú gætir ekki unt hinum dauðu að dansa yfir leiðin í tunglsljósinu.«

»Skammast þú þín fyrir að hafa verið prestur, fyrst þú vilt nú deyja? Það væri þó heiðarlegra, ef þú vildir nota hæfileika þína og gera eitthvert gagn á Guðs grænni jörð, skal ég segja þér. Hversvegna komstu ekki strax til mín, þá skyldi ég hafa komið öllu í gott lag fyrir þig. Nú væntir þú þér víst mikils heiðurs af að verða hjúpaður líkblæju, lagður í hefilsspæni og kallaður fallegt lík.«

Förumaðurinn sat rólegur, næstum brosandi, meðan hun lét dæluna ganga. Engin hætta, hugsaði hann, engin hætta! Skógarnir eilífu bíða og hún hefur engan þrótt til að snúa sál þinni frá þeim.

En majórsfrúin þagnaði og gekk nokkrum sinnum fram og aftur um gólfið; svo settist hún við arninn, lagði fæturna upp á eldstóna og studdi olnbogunum á hnén.

»Skollinn hafi það,« sagði hún og hló ofurlítið við, »það er svo satt sem ég segi, að ég hef tæpast tekið eftir því sjálf. Heldurðu ekki að flestir í þessum heimi séu dauðir eða hálfdauðir? Heldurðu ég lifi? Ónei, ónei?«

»Já horfðu bara á mig. Ég er majórsfrúin á Eikabæ, og ég verð að halda að ég sé ríkasta frúin á Vermalandi. Bendi ég með einum fingri, þá hleypur landshöfðinginn, bendi ég með

tveim, hleypur biskupinn og bendi ég með þrem, þá dansar bæði kórbræðrasamkundan, ráðherrar og herramenn polka á torginu í Karlstað. Skollinn hafi það, segi ég, drengur minn, ég er ekki annað en lík í fötum. Guð veit, hversu lítið líf er í mér.«

Förumaðurinn hallaði sér áfram á stólnum og hlustaði nú með athygli. Gamla majórsfrúin sat og ruggaði sér fyrir framan eldinn. Hún horfði ekki á hann meðan hún talaði.

»Heldurðu ekki,« hélt hún áfram, »að ef ég væri lifandi manneskja, sem sæi þig sitja þarna fátækan og aumkunarverðan með sjálfsmorðshugsanir í hjarta þínu, heldurðu ekki að ég mundi reka þær burt frá þér í einu vetfangi? Þá hefði ég getað tárast yfir þér og bænir mínar mundu hafa breytt öllum áformum þínum, og ég hefði frelsað sál þína; en nú er ég dauð. Guð veit, hversu lítið líf er í mér.

Hefurðu heyrt, að ég var einusinni Margrét Celsing hin fagra? Það er nokkuð langt síðan, en enn þá get ég setið og grátið gömlu augun mín rauð yfir henni. Hví átti Margrét Celsing að deyja og Margrét Samzelíus að lifa; hví á majórsfrúin á Eikabæ að lifa? Segðu mér það, Gústaf Berling!

Veiztu hvernig Margrét Celsing var? Hún var grannvaxin og smálimuð og góð og saklaus. Hún var ein af þeim, sem englarnir gráta yfir, þegar dauðann ber að. Hún þekti ekkert ilt, enginn hafði hrygt hana, hún var góð við alla. Og falleg var hún, ljómandi falleg.

Það var einusinni ágætismaður. Hann hét Altringer. Guð má vita, hvernig stóð á því, að hann kom þar upp í eyðihéruðin í Fljótsdalnum, þar sem jörð foreldra hennar lá. Margrét Celsing sá hann, hann bar af öllum mönnum og hann elskaði hana.

En hann var fátækur, og þau komu sér saman um að bíða hvort eftir öðru í 5 ár, eins og stendur í vísunni.

Þegar 3 ár voru liðin, kom annar biðill. Hann var ljótur og leiður, en foreldrar hennar héldu, að hann væri ríkur, og þau neyddu Margréti Celsing með fortölum og fagurgala, með barsmíði og hótunum, til að taka hann sér fyrir mann. Sjáðu til, þann dag dó Margrét Celsing.

Síðan þá hefur engin Margrét Celsing verið til, heldur bara majórsfrú Samzelíus, og hún var ekki góð, ekki saklaus, hún aðhyltist hið illa og gaf ekki gaum að því, sem gott var.

Þú veizt víst, hvernig svo fór. Við bjuggum á Vatni, hérna

við Löfven, majórinn og ég; en hann var ekki ríkur, eins og sagt hafði verið. Eg átti oft erfitt.

Þá kom Altringer aftur og nú var hann ríkur. Hann keypti Eikabæ, sem er næsta jörð við Vatn, og hann keypti 6 aðrar jarðir við Löfven. Hann var duglegur og framkvæmdarsamur; ágætismaður var hann. — Hann hjálpaði okkur í fátæktinni; við ókum í vögnunum hans, hann sendi mat í eldhúsið okkar og vín í kjallarann. Hann gjörði mér lífið létt og ánægjulegt. Majórinn fór burt í stríð, en hvað kærðum við okkur um það! Annan daginn var ég gestur á Eikabæ, hinn daginn kom hann að Vatni. Ó, það var eins og gleðin dansaði hringdans eftir bökkunum á Löfven!

En svo var farið að baktala Altringer og mig. Hefði Margrét Celsing þá lifað, mundi hún vissulega hafa orðið mjög sorgbitin, en mér stóð alveg á sama. Þó vissi ég ekki enn, að það var af því, að ég var dauð, að ég var tilfinningarlaus.

Þetta þvaður um okkur kom fyrir eyru föður mínum og móður, þar sem þau voru í kolanámunum í Fljótsdalsskógunum. Gamla konan hugsaði sig ekki lengi um; hún lagði af stað hingað til að tala við mig.

Einn góðan veðurdag, meðan majórinn var burtu, sat ég undir borðum ásamt Altringer og fleirum; þá kom hún að Vatni. Ég sá hana ganga inn í stofuna, en ég fann ekki, að hún væri móðir mín. Ég tók kveðju hennar ókunnuglega og bauð henni að setjast til borðs með okkur og gjöra sér gott af matnum.

Hún ætlaði að tala við mig eins og ég væri dóttir hennar, en ég sagði henni, að henni skjátlaðist; foreldrar mínir væru dánir, þau hefðu dáið á brúðkaupsdegi mínum.

Þá félst hún á leikinn. Sjötug var hún og tuttugu mílur vegar hafðu hún ekið á þrem dögum. Nú settist hún róleg niður og borðaði með okkur. Hún var óvanalega þrekmikil kona.

Hún sagði, að það væri sorglegt, að ég hefði orðið fyrir slíkum missi einmitt þann dag.

»Hið sorglegasta var,« svaraði ég, »að foreldrar mínir dóu ekki einum degi fyr, því þá hefði ekkert orðið af brúðkaupinu.«

»Majórsfrúin er þá ekki ánægð með hjónaband sitt?« spurði hún þá.

»Jú,« svaraði ég, »nú er ég ánægð. Ég mun ætíð verða ánægð með að hlýðnast vilja minna kæru foreldra.«

Hún spurði, hvort það hefði verið vilji foreldra minna, að ég skyldi dyngja skömm og svívirðing yfir þau og sjálfa mig og svíkja manninn minn. Litla virðing sýndi ég foreldrum mínum með því, að gefa tilefni til þvaðurs.

«Þau verða að liggja eins og þau hafa um sig búið,« svaraði ég henni og auk þess mætti ókunna frúin vita, að ég þyldi ekki. að neinn færi smánarorðum um dóttur foreldra minna.

Við borðuðum, við tvær einar. Karlmennirnir kringum okkur sátu þegjandi og gátu hvorki hreyft hníf né gaffal.

Gamla konan var sólarhring um kyrt, til að hvíla sig; svo fór hún. En meðan hún var, gat ég ómögulega skilið í, að hún væri móðir mín. Ég vissi bara, að móðir mín var dáin.

Þegar hún var að fara af stað, og ég stóð við hlið hennar í dyrunum og vagninn var kominn, þá sagði hún við mig:

»Heilan sólarhring hef ég nú verið hér, án þess að þú hafir viljað kannast við mig sem móður þína. Um óbygðir hef ég ferðast hingað, tuttugu mílur á þrem dögum, og ég skammast mín svo fyrir þig,, að ég skelf og titra eins og ég hefði verið húðstrýkt. Verði þér afneitað eins og mér hefur verið afneitað, útskúfað eins og mér hefur verið útskúfað, Verði þjóðvegirnir heimili þitt, hálmbæli rúm þitt, kolagröfin arinn þinn. Skömm og svívirðing verði laun þín, og slái aðrir þig, eins og ég nú slæ þig!«

Og hún rak mér rokna löðrung.

En ég tók hana upp, bar hana niður þrepin og setti hana í vagninn. »Hver ert þú, að þú formælir mér?« sagði ég. »Hver ert þú, að slærð mig?· Það þoli ég ekki neinum.«

Og ég gaf henni löðrunginn aftur.

Vagninn ók af stað samstundis, en þá, í því augnabliki, Gústaf Berling, vissi ég að Margrét Celsing var dauð. — Hún var góð og saklaus; hún þekti ekkert ilt. Englarnir höfðu grátið á gröf hennar. Ekki hefði hún slegið móður sína, ef hún hefði lifað.«

Förumaðurinn við dyrnar hafði tekið vel eftir og orðin höfðu snöggvast yfirgnæft hinn tælandi þyt frá hinum eilífu skógum. Sjá, þessi volduga frú, hún gjörði sig sjálfa jafna honum í synd. systur hans í glötun, til þess að gefa honum hugarþrek til að lifa. Þannig átti hann að komast að raun um, að sorg og synd hvíldi á herðum fleiri en hans. Hann stóð upp og gekk til majórsfrúarinnar.

»Viltu nú lifa‘ Gústaf Berling?« spurði hún með grátstaf í kverkunum; »hversvegna vilt þú deyja? Þú hefðir getað orðið

duglegur prestur, en aldrei var Gústaf Berling sá, sem þú drektir brennivíni, jafn-engilhreinn og Margrét Celsing, sú sem ég kæfði í hatri. Viltu lifa?«

Gústaf féll á kné fyrir majórsfrúnni.

»Fyrirgefið mér,» sagði hann, »ég get það ekki.«

»Ég er gömul kona,« sagði majórsfrúin, »hörðnuð af miklum mótgangi, og hér sit ég og rek raunir mínar fyrir flakkara, sem ég hef fundið hálfdauðan í snjóskafli við veginn. Maklega fer mér. Látum hann fara og verða sjálfsmorðingja; þá getur hann að minsta kosti ekki sagt neinum frá flónshætti mínum.«

»Majórsfrú góð, ég er engin sjálfsmorðingi, ég er dauðadæmdur. Gjörið mér ekki baráttunu of erfiða. Ég get ekki lifað. Líkaminn hefir orðið sál minni yfirsterkari, þessvegna verð ég að láta hana lausa; lofa henni að fara til Guðs.«

»Já, já, svo þú heldur hún fari þangað?«

»Verið þér sælar, majórsfrú Samzelíus, og þakka yður fyrir.«

»Vertu sæll, Gústaf Berling.«

Förumaðurinn stóð upp og skjögraði niðurlútur fram að dyrunum. Þessi kona hafði gert leiðina til hinna eilífu skóga erfiða fyrir hann.

Þegar hann kom að dyrunum, gat hann ekki stilt sig um að líta aftur. Þá mætti hann augnaráði majórsfrúarinnar, sem sat kyr og horfði á eftir honum. Hann hafði aldrei séð þvílíka breytingu á andliti, og hann staðnæmdist og starði á hana. Hún, sem nýlega hafði verið reið og ógnandi, virtist nú algjörlega ummynduð og augu hennar tindruðu af umburðarlyndum, hluttakandi kærleik. Það var eitthvað í brjósti hans, í hans eigin afvegaleidda hjarta, sem ekki stóðst þetta augnaráð; hann studdi enninu við dyrastólpann, lyfti handleggjunum upp yfir höfuð sér og grét, eins og hann ætlaði að springa.

Majórsfrúin fleygði krítarpípunni í eldinn og gekk til hans. Hreyfingar hennar urðu alt í einu móðurlega blíðar.

»Svona nú, drengur minn!«

Og hún dró hann niður til sín á bekkinn við dyrnar, svo að hann grét með höfuðið í kjöltu hennar.

»Viltu enn þá deyja?«

Hann ætlaði að þjóta upp. Hún varð að halda honum með valdi.

»Nú segi ég þér það í síðasta sinn, að þú getur gjört eins og þér þóknast. En því lofa ég þér, að ef þú vilt lifa, þá skal

ég taka dóttur Brúbæjarprestsins að mér og gera hana að manneskju, og þá má hún þakka Guði fyrir, að þú stalst mjölpokanum hennar. Viltu svo lifa?«

Hann leit upp og horfði í augu henni.

»Er það alvara?« — »Það er það, Gústaf Berling.«

Þá sló hann höndunum saman í angist. Hann sá í anda flóttalegu augun, samanklemdu varirnar og skinhoruðu, litlu hendurnar. Veslings barnið átti þá að fá hjúkrun og hirðingu, bæði andlega og líkamlega. Nú luktist leiðin til hinna eilífu skóga fyrir honum.

»Ég skal ekki ráða mér bana meðan hún er undir hendi majórsfrúarinnar,« sagði hann. »Ég vissi, að majórsfrúin mundi neyða mig til að lifa. Ég fann strax, að majórsfrúin var sterkari en ég.«

»Gústaf Berling,« sagði hún hátíðlega, »ég hef barist fyrir okkur bæði. Ég sagði við Guð: »Sé nokkur vitund af Margrétu Celsing enn þá lifandi í mér, þá leyfðu henni að koma í ljós og hindra þennan mann í að fara og drepa sig.« Og Guð leyfði það. og þú sást hana, og þessvegna gazt þú ekki farið. Og hún hvíslaði að mér, að vegna veslings barnsins mundir þú kannske hætta við að deyja. — Ójá, þið fljúgið nógu djarflega, viltu fuglarnir, en Guð þekkir netin, sem geta veitt ykkur.«

»Hann er voldugur og óskiljanlegur Guð,« sagði Gústaf Berling, »hann hefur gjört gabb að mér og útskúfað mér, en hann vill ekki láta mig deyja. Verði hans vilji.«

Upp frá þeim degi var Gústaf Berling »stásssveinn« á Eikabæ. Tvisvar reyndi hann að fara burt þaðan og lifa af vinnu sinni. Annað skiftið gaf majórsfrúin honum hús rétt við Eikabæ: hann flutti þangað og ætlaði að reyna að lifa sem daglaunamaður. Það tókst honum nokkurn tíma, en hann varð brátt þreyttur á einverunni og þessu daglega striti, — og varð aftur »stásssveinn«. Hitt skiftið var, þegar hann fór að Borg til að kenna Hinrik Dohna, greifasyninum. Þá varð hann ástfanginn í Ebbu Dohna. yngri systur Hinriks; en þegar hún dó, rétt um það leyti, sem hann hélt, að hann væri að ná ástum hennar, þá hætti hann alveg að hugsa um að vera annað en »stásssveinn« á Eikabæ. Honum virtist engin uppreisn vera möguleg fyrir hempulausan prest.

Þýtt hefir
BJÖRG ÞORLÁKSDÓTTIR.

---

# Ísland.

*Tileinkað íslenzkum skólabörnum.*

---

Töframynd í Atlanzál,
ennisbjarta, tigna móðir;
dýrust mynd í sona sál,
sem í hjörtum tendrar bál
heitt sem þínar Heklu-glóðir!
Vér lútum þér með lotning,
vér lútum þér, Norðurhafs drotning!
Vér elskum þig með fossum og fjöllum,
já fannbungum, hraunum og jöklunum öllum;
því þú ert vor móðir, vort minningaland.
Móðir og minningaland!

*Héðins, Grettis* fósturfold,
fóstran *Kjartans, Gunnars* móðir,
*Arasonar* móðurmold!
margrar hetju blóð og hold
geyma þínar göfgu slóðir.
Vér lútum þér með lotning,
vér lútum þér, fornkappa drotning!
Vér elskum þig með fossum og fjöllum
og fornaldar minnum og köppunum öllum;
því þú varst þeim móðir, vort minningaland.
Móðir og minningaland!

Auðgast sögu og sagnaland,
*Sæmund* þú á brjóstum fæddir;
*Ara* og *Snorra* ættarland,
*Espólíns* og *Sturlu* land,
þú, sem heim um fornöld fræddir!
Vér lútum þér með lotning,
vér lútum þér, sagnanna drotning!
Vér elskum þig með fossum og fjöllum
og fortíðar minnum og sögunum öllum;
því þú varst þeim móðir, vort minningaland.
Móðir og minningaland!

Eddu og skálda óðalsslóð,
*Arnórs* ljóð þú málsnild gæddir;
þú átt *Sighvats, Egils* óð,
*Eysteins*, *Hallgríms* sólarljóð.
*Bjarna* og *Jónas* báða fæddir!
Vér lútum þér með lotning,
vér lútum þér, skáldanna drotning!
Vér elskum þig með fossum og fjöllum
og fornskálda kvæðum og ljóðunum öllum;
því þú varst þeim móðir, vort minningaland.
Móðir og minningaland!

Lagaspeki og frelsis fold,
fim þér reyndist *Úlfljóts* tunga;
*Njáls* og *Gellis* móðurmold
móðir *Þorgeirs, Skafta* fold,
*Jón* þú barst og *Baldvin* unga!
Vér lútum þér með lotning,
vér lútum þér, frelsisins drotning!
Vér elskum þig með fossum og fjöllum
og fortíðar spekinni og lögunum öllum!
því þú varst þeim móðir, vort minningaland.
Móðir og minningaland!

Barna þinna vona Vár!
vor skal sonareiður þessi:
þér að vinna um öld og ár,
unz í skaut þitt fellur nár.
Drottinn heit vort heyri og blessi!
Vér lútum þér með lotning,
vér lútum þér, framtíðar drotning!
Vér elskum þig með fossum og fjöllum
og framtíðar heitum og vonunum öllum;
því þú ert vor móðir, vort minningaland.
Móðir og minningaland!

**V. G.**

---

# Íslenzk hringsjá.

UM SPJALDVEFNAÐ (»Über Brettchenweberei«, Berlin 1901) heitir bók, sem fröken *M. Lehmann-Filhés* hefir gefið út og er það skrautrit mikið í fjögra blaða broti og með 82 myndum og henni til stórsóma. Ritið er í 10 köflum og er þar nákvæm lýsing á spjaldvefnaðinum í sínum ýmsu myndum og sjálfri vefnaðaraðferðinni. Þar er og mjög fróðleg skýrsla um rannsóknir bæði hennar sjálfrar og margra nafnkunnra vísindamanna viðvíkjandi spjaldvefnaðinum og útbreiðslu hans í ýmsum löndum. Kemur það upp úr kafinu, að hann er ekki aðeins eldgamall, heldur hefir tíðkast um allar jarðir, og má víðast hvar finna einhverjar menjar hans í hinum »gamla heimi«. Í Danmörku er hann til á Jótlandi, í ýmsum héruðum í Noregi, Svíþjóð og Finnlandi. Hann er og iðkaður á sumum stöðum í Grikklandi,



Spjaldofinn lindi (»snúruband«).

í Litlu-Asíu, Kákasus, Indlandi, Síam, Kína o. s. frv. Álítur Assyríufræðingurinn Dr. Carl Lehmann, að Babýlonsríkið sé hið upprunalega heimkynni hans. Og fröken L.-F. álítur, að Guðrúnarkviða II, 26 (»*Húnskar meyjar, þær er hlaða spjöldum ok göra gull fagrt*«) bendi á, að spjaldvefnaðarlistin hafi fluzt með Húnum til Norðurálfunnar frá Kákasuslöndunum, þar sem menn enn eru leiknir í þessum vefnaði og vefa bæði gullhlöð og silfurbönd með spjöldum. Þetta virðist þó mjög vafasamt. Fult eins líklegt er, að orðin í Guðrúnarkviðu eigi aðeins að benda á, að húnskar konur hafi verið öðrum fremur leiknar í spjaldvefnaði. Því ýmislegt virðist benda á, að spjaldvefnaðurinn hafi áður verið til á Norðurlöndum og sé þar eldgamall. Þannig getur frøken L.-F. þess, að í Þjóðmenjasafninu í Kaupmannahöfn sé til lindi (eða mittisband) frá eiröldinni, sem að dómi manna, er vit hafa á, sé spjaldofinn. Og þetta er næsta líklegt, þar sem menjar þessa vefnaðar hafa fundist í forngröfum Egipta frá árinu 960 fyrir Krists burð og svipaðar menjar má finna víða annarstaðar frá fornöldinni. Menjar hans hafa meira að segja fundist hjá frumbyggjum Ameríku, því í safni einu í Hamborg er spjaldofið band frá Peru, sem fundist hefir í forngröfum þar. Spjaldvefnaðurinn virðist því hafa verið mjög almennur hjá öllum fornþjóðum, og er það því mjög sennileg tilgáta, er fröken L.-F. ætlar, að hann sé

sú elzta vefnaðartegund, sem yfir höfuð sé til eða mannkynið fyrst hafi fundið upp. Lýsing L.-F. á sjálfri vefnaðaraðferðinni og tilbreytingum hennar virðist gera þetta mjög líklegt. Hún getur sem sé bæði verið ákaflega einföld og töluvert margbrotin; en hin fullkomnari aðferðin er þó aðeins tilbreyting á hinni einfaldari,



Spjaldofið sokkaband (rósaband).

sem vaxið hefir smámsaman út frá henni. Hin einfaldasta og elzta aðferð er nálega eingöngu í því fólgin að snúa saman þræði og úr því myndast svo snúrubandið. En svo vaxa smámsaman tilbreytingarnar með nýjum tilraunum, unz menn



Spjaldofið leturband.

fara að geta ofið bönd með rósaflúri, stöfum og ýmsum myndum. Upphaflega álítur fröken L.-F. að menn aðeins hafi ofið mjó bönd, sem menn svo hafi skeytt



Kona við spjaldvef.

saman á jöðrunum, til að mynda úr þeim dúka og ábreiður, eins og sumar þjóðir í Afríku gera enn í dag, þó þar sé ekki ofið með spjöldum. En fyrst síðar, er menn vóru búnir að finna upp nýjar aðferðir og nýja vefstóla, hafi menn farið að vefa breiðari dúka. En alt eigi þó rót sína að rekja til spjaldvefnaðarins frá fyrstu.

Í bókinni eru meðal annars 4 myndir af spjaldofnum böndum frá Íslandi, og hefir oss þótt við eiga að gefa lesendum Eimreiðarinnar kost á að sjá 3 af þessum myndum. Er ein þeirra af íslenzku »snúrubandi«, önnur af rósabandi og hin þriðja af leturbandi (með nafni Brynjúlfs Jónssonar fornfræðings, ofið fyrir skömmu af konu á Vesturlandi). Þar við bætum vér svo 4. myndinni, sem áður hefir staðið í eldri ritgerð um spjaldvefnaðinn eftir fröken L.-F. í »Zeitschrift d. Ver. f. Volksk.« 1899 Er það mynd af íslenzkri konu, sem er að vefa í spjöldum með tvöföldu skili, og hefir fornfræðingur Brynjúlfur Jónsson gert frumteikninguna að henni, en fröken L.-F. teiknað eftir henni þá mynd, er hér birtist.

Það er vonandi, að íslenzkar konur sjái nú um að spjaldvefnaðarlistin gleymist nú ekki úr þessu, heldur nái æ meiri og meiri þroska og gengi hjá hinni uppvaxandi kvenþjóð í landinu. Þær, sem vilja afla sér frekari leiðbeiningar um hana, ættu að útvega sér þessa umgetnu bók fröken L.-F., og munu þær þá fljótt sannfærast um, hve undursnotran og margbreyttan vefnað má framleiða með hinum einföldu og ódýru vefspjöldum, sem ekki einu sinni þurfa að vera úr tré, heldur má líka búa til úr brúkuðum spilum, bókaspjöldum eða pappa. Spjaldvefnaður ætti að vera sjálfsögð kenslugrein í kvennaskólunum. *V. G.*

ÞJÓÐMENNING ÍSLENDINGA um aldamótin 1900 (»Islands Kultur ved Aarhundredskiftet 1900«) heitir bók, sem dr. *Valtýr Guðmundsson* hefir gefið út árið sem leið (1902) með styrk af hinum mikla Carlsbergssjóði, og sem prófessor *Þorvaldur Thoroddsen* hefir samið inngang að. Efni þessarar bókar er í fám orðum sem hér segir:

Fyrst er stuttur formáli eftir dr. Valtý, þar sem gerð er grein fyrir því, hvernig bókin er orðin til. Því næst kemur inngangur eftir próf. Þ. Thoroddsen um »náttúru Íslands« og þarf þess varla að geta, að hann er ágætur að efni til, því eins og allir vita er höf. allra manna fróðastur um náttúru Íslands, og hefir með rannsóknum sínum og ritstörfum unnið sjálfum sér og ættlandi sínu mjög mikinn heiður. En hins er vert að geta, að ritgerð þessi er rituð með mestu snild. Höf. virðist vera jafnlétt að rita ágæta dönsku eins og íslenzku.

Þegar inngangium sleppir, tekur við aðalefni bókarinnar, »Islands Kultur«: »Þjóðmenning Íslendinga um aldamótin 1900« eftir dr. Valtý Guðmundsson. Í »Eimreiðinni« VI var alllöng ritgerð eftir dr. Valtý um »framfarir Íslands á 19. öldinni«. Ritgerð þessi vakti mikla athygli og var meðal annars þýdd á þýzku. Hana hefir nú höf. aukið og endurbætt og lagt til grundvallar við samningu dönsku bókarinnar. Sakir þess má nú skoða »Eimreiðar«-ritgerðina eins og ágrip af bók þessari. Hér þarf eigi að setja nema örstutt yfirlit yfir efnið í »Islands Kultur«. Efninu er skift í 6 kafla.

Fyrsti kaflinn er um »þjóðina og daglegt líf hennar«. Þar talar höf. um fólksmagnið, þjóðareinkennin, búninginn, húsaskipun, skemtanir, íþróttir og hjátrú. Kafli þessi er mjög skemtilegur og fróðlegur fyrir danska lesendur. Það er vandaverk að lýsa einkennum heillrar þjóðar með fáum orðum. Tilraun höf. í því efni ber vott um mjög skarpa hugsun og nákvæma athygli. En auðvitað ætlast hann eigi til, að álit hans á þjóðareinkennum Íslendinga sé fullnaðardómur. Hann segir

sjálfur, »að lýsing sín sé eigi annað og meira en tilraun«. Sérstök þjóðareinkenni Íslendinga koma þá fyrst glögt í ljós, þegar þeir eru bornir saman við ættfrændur sína á Norðurlöndum (t. d. Norðmenn), og um leið tekið tillit til menningarstigs þess, sem Íslendingar nú standa á. En rúmið hefir eigi leyft höf. að rita nákvæmar um þetta efni.

Annar kaflinn um »um stjórnarfar og embættaskipun« er fróðleg og skipuleg lýsing á stjórnmálum Íslands, stjórnarskránni, framkvæmdarstjórninni, sveitastjórninni, dómaskipuninni og kirkjumálum. Í kafla þessum eru meðal annars myndir af *Baldvini Einarssyni, Jóni Sigurðssyni* og *Benedikt Sveinssyni.*

Í þriðja kaflanum um »uppfræðing og mentun« skýrir höf. frá kenslu- og skólamálum, söfnum, félögum, sem starfa að mentun og uppfræðing, prentsmiðjum, blaða- og bókasölu og umönnun þeirri og hjálp, sem ríkið og einstakir menn veita uppfræðing og vísindum.

Fjórði kaflinn er um »bókmentir og listir«. Hér kemur höf. fram með ágætt yfirlit yfir nýrri bókmentir Íslendinga. Auðvitað lýsir hann einkum bókmentum 19. aldarinnar og leysir yfirleitt verk sitt prýðilega af hendi. Nokkrir lærðir menn meðal Dana hafa haldið því fram, að Ísland ætti engar nýjar bókmentir. Þeir sjá nú, að þekking þeirra hefir í þessu efni verið mjög ófullkomin. Hér eru og myndir af þessum rithöfundum: *Magnúsi Stephensen, Tómasi Sæmundssyni, Bjarna Thorarensen, Jónasi Hallgrímssyni, Grími Thomsen, Benedikt Gröndal, Steingrími Thorsteinsson, Matthíasi Jochumssyni, Þorsteini Erlingssyni, Jóni Thoroddsen, Gesti Pálssyni, Finni Magnússyni, Sveinbirni Egilssyni, Konráði Gíslasyni, Guðbrandi Vigfússyni, Jóni Árnasyni, Vilhjálmi Finsen, Birni Gunnlaugssyni* og *Pétri Péturssyni.* Í kafla þessum talar höf. ennfremur um listir og íþróttir á Íslandi, en þær standa enn þá á mjög veikum fótum. Í honum er fjöldi mynda og meðal annars myndir af tveimur listamönnum: *Sigurði Guðmundssyni* málara og *Sveinbirni Sveinbjörnsson* tónskáldi.

Í fimta kaflanum ritar höf. um fjármál og efnahag, atvinnuvegi og samgöngur. Hann skýrir allnákvæmlega frá landbúnaðinum, fiskiveiðunum, dýraveiðum, handiðnum, iðnaði, málmnámi og verzlun. Hér fá danskir lesendur afarmikla og margháttar fræðslu, sem þeir geta hvergi annarstaðar fengið. Þessi kafli er ágætur bæði að efni og búningi.

Sjötti kaflinn er um »heilbrigðismál og mannúðarmál«. Þar talar höf. um læknaskipun, spítala, ellistyrksmál, fátækramál, bindindismál og fl.

Bókinni fylgir viðauki. Í honum eru þýðingar á nokkrum íslenzkum kvæðum. Höfundar kvæðanna eru *Bjarni Thorarensen, Jónas Hallgrímsson, Jón Thoroddsen, Grímur Thomsen, Benedikt Gröndal, Páll Ólafsson, Steingrímur Thorsteinsson* og *Matthías Jochumsson.* Þar eru og þýddir kaflar úr íslenzkum skáldsögum. Höfundar sögukaflanna eru *Jón Thoroddsen* og *Gestur Pálsson.* Þýðingar þessar eru flestar eftir danska menn. Þær eru yfirleitt mjög góðar, þótt þær auðvitað geti eigi jafnast við frummálið. Dönsk tunga getur alls eigi náð hljómfegurð íslenzkunnar.

»Islands Kultur« er allstór bók: 160 + VIII blaðsíður í stóru broti. Í henni eru 108 myndir. Flestar þeirra eru fallegar og vel gerðar. Þó eru sumar mannamyndirnar eigi vel glöggar; en dr. Valtýr gat engar betri fengið. Prentun og allur frágangur bókarinnar er í bezta lagi.

»Islands Kultur« er í alla staði ágæt bók. Hún er reglulegt forðabúr öllum þeim, sem fljótlega vilja kynna sér Ísland og hag þess. Efnið er afarmikið og margbrotið. En því er komið svo vel og skipulega fyrir, að bókin er skemtileg. Lengri kaflarnir hafa tekist ágætlega. Alstaðar er höf. stuttorður og gagnorður, eins og vísindamanni og góðum rithöfundi sæmir. Sumstaðar hefði hann mátt vera

orðfleiri, en rúmið hefir eigi leyft það. Reyndar mætti gera dálitlar athugasemdir við stafsetning sumra íslenzkra nafna o. s. frv. En slíkir smámunir hafa enga þýðingu. Og auk þess gerir höf. grein fyrir þeim í formálanum.

»Islands Kultur« er sönn og skilrík bók. Hún fer með engar ýkjur, en færir ávalt sterkar sannanir fyrir máli sínu. Höf. skýrir rétt og látlaust frá mjög miklum framförum, sem Ísland og Íslendingar hafa tekið síðustu áratugina. Með einlægri ættjarðarást og bjargfastri trú á framtíð Íslands er bent á, að framfarir þessar eru aðeins byrjun: Ísland á beztu framtíð fyrir höndum, »ef að þjóðin þar til ber þrek og hygni og vilja«. Í bók þessari getur íslenzka þjóðfélagið séð mynd sína, og myndin er framar öllum vonum fögur og blómleg og Íslendingum til sóma.

»Islands Kultur« er þýðingarmikil og þörf bók. Hún er einkum rituð handa Dönum. En þeir hafa allra manna mest þörf á því að fræðast um Ísland. Henni hefir og verið tekið ágætlega í Danmörku. Ritdómar hafa komið um hana í öllum aðalblöðum Dana, og óefað verður rætt um hana i mörgum dönskum tímaritum. Allir ritdómarnir ljúka lofsorði á bók þessa, og allir bera þeir vott um mesta velvilja til Íslands og Íslendinga.

Hér skal að síðustu sett lítið sýnishorn þess, sem ritað hefir verið um »Islands Kultur« í nokkrum blöðum og tímaritum, sem vér höfum við hendina. Sýnishorn þetta er alls eigi orðrétt. Það er lauslega þýtt. Og fleiri málsgreinar eru dregnar saman í eitt, til þess að þær taki sem minst rúm.

»*Berlingske Tidende*«: Hinn ágæti jarðfræðingur og landfræðingur Íslands, prófessor Þorv. Thoroddsen hefir ritað inngang að »Islands Kultur«. Inngangur þessi er ágæt náttúrulýsing á Íslandi, þótt hún sé stutt. »Náttúra Íslands er svo einkennileg, að landið má telja með merkilegustu löndum í heimi«. Dr. Valtý Guðmundssyni hefir tekist verk sitt vel. Bók hans er hugðnæm og skemtileg. Og efni hennar er flestum Dönum hreinasta nýjung. Vér ráðum öllum, sem vilja kynna sér Ísland og Íslendinga að lesa rækilega bók þessa. Það þarf að breiða út þekkingu á Íslandi í Danmörku. Bók dr. Valtýs er góð byrjun þess. Vonandi líður eigi á löngu, áður en hún kemur aftur út í nýrri og aukinni útgáfu.

»*Dagbladet*«: »Islands Kultur« er ágæt og handhæg handbók í öllu, sem Ísland snertir. Miklar framfarir hafa orðið á Íslandi, síðan Íslendingar fengu stjórnarbótina 1874. Og þær verða óefað miklu meiri, þegar stjórnarbaráttan, sem höf. hefir tekið svo mikinn þátt í, verður nú loksins til lykta leidd.

»*Dannebrog*«: Til allrar hamingju eru Ísland og Danmörk að komast í nánari kynni en áður. En vér Danir höfum hingað til eigi haft aðgang að handhægum bókum um hag Íslands og íslenzk málefni á þessum tímum. Bókin »Islands Kultur«, eftir hinn nafnkenda íslenzka stjórnmálamann, dr. Valtý Guðmundsson kemur því á réttum tíma og í beztu þarfir. »Islands Kultur« vekur hjá oss virðingu fyrir þolgæði Íslendinga, og sjálfstæð þjóðmenning þeirra hrífur oss. Ísland á eftir fólkstölu fleiri skáld og rithöfunda en nokkur önnur þjóð. Íslendingar eiga enn þá afarmikinn ónotaðan auð í jarðveginum, fossunum og hafinu. Þeir geta með styrk frænda sinna í Danmörku átt ágæta framtíð fyrir höndum. Óefað verður þess eigi langt að bíða, að Ísland fær ritsíma-samband við umheiminn.

»*Dansk Kirketidende*«: »Islands Kultur« er falleg og skemtileg bók. Höf. hennar, dr. Valtýr Guðmundsson, hefir leyst verk sitt prýðilega af hendi. Bókin er honum til mikils sóma, og er í raun og veru afburðaritverk (*monumentalt Værk*). Hún veitir oss Dönum mjög gagnlega og hugðnæma fræðslu. Og Íslendingar hafa fulla ástæðu til að vera glaðir og hreyknir yfir henni. Inngangur bókarinnar er um náttúru Íslands. Hann er eftir Þorv. Thoroddsen.

»*København*«: »Islands Kultur« er allstór bók. Höf. hennar, herra Valtý Guðmundsson, ritar frábærlega skýrt, áhrifamikið og skemtilegt yfirlit yfir framfarir Íslands á 19. öldinni. Með mikilli mælsku talar »Islands Kultur« máli Íslendinga og heldur fram rétti þeirra til að teljast meðal mentaþjóðanna.

»*Läsning för Svenska Folket*«: »Islands Kultur« er mjög dýrmæt bók öllum þeim, sem vilja kynna sér »merkilegu eyna« (Ísland).

»*Lollands-Falsters Stifts-Tidende*«: »Islands Kultur« dr. Valtýs Guðmundssonar veitir oss Dönum ágæta hjálp til þess að kynna oss framfarir Íslands á 19. öldinni og þjóðlíf Íslendinga á þessum tímum. Í þessu efni hefir dr. Valtýr bætt úr brýnni þörf vorri. Og megum vér vera honum þakklátir fyrir það.

»*Nordisk Tidskrift*«: »Islands Kultur« er einkar hugðnæm bók og þýðingarmikill viðauki við »Danmarks Kultur«. Náttúrulýsingin er eftir prófessor Þorv. Thoroddsen. Hún er svo vönduð og snildarlega ritin, að erfitt er að finna aðra jafngóða. Höf. bókarinnar, dócent Valtyr Guðmundsson, raðar efninu mjög vel og fléttar það saman. Margt ritar hann einkar hugðnæmt og skemtilega, t. d. um húsaskipun, þjóðareinkennin og stjórnarskrármálið. Ágæt er lýsing hans á efnahag landsins og atvinnuvegunum. *H. P.*

Á LEIÐINNI (»Undervejs«) heitir nýútkomin kvæðabók (Khöfn 1902) eftir skáldið *Olaf Hansen*, þann er flest hefir þýtt af íslenzkum kvæðum og var einn í stúdentaförinni til Íslands sumarið 1900, en lagðist veikur í Rvík og varð því að verða þar eftir, er félagar hans héldu heimleiðis.

Fyrst er inngangskvæði (»Listin mín«), en því næst er bókinni skift í 5 kafla: 1. »Endurskin« (3 kvæði), 2. »Í bæ rústanna« (11 kvæði), 3. »Rakel« (5 kvæði), 4. »Í norðrinu« (3 kvæði) og 5. Sæluóður« (2 kvæði).

Öll þessi kvæði eru mjög snotur, en lesendum Eimreiðarinnar viljum vér sérstaklega benda á 4. kaflann. Öll kvæðin í honum eru sem sé um Ísland, því þó hið síðasta þeirra sé eiginlega um Rasmus Rask, málfræðinginn fræga, þá er það sérstaklega um hann sem hinn ógleymanlega Íslandsvin og starf hans að endurreisn íslenzkrar tungu og íslenzkra bókmenta. Kvæði þessi eru hin fegurstu, full af góðvild til Íslands og aðdáun, og í ríminu hljómmikil hrynjandi, enda er ágætt rím á öllum kvæðum O. H. Þetta er þriðja kvæðabókin, sem út hefir komið eftir hann (auk þýðinganna úr íslenzku), og hafa allar bækur hans hlotið góðan orðstír í dönskum blöðum. *V. G.*

---

## Leiðréttingar.

Þessar prentvillur eru menn beðnir að leiðrétta í VIII. árg. Eimreiðarinnar:

Bls. 110, l. 7: mælikvarði 1:920,000 les mælikvarði 1 : 1,920,000.
- 111, l. 25: Blýgrýtisfjöllin les Blágrýtisfjöllin.
- 235, l. 20: Einar Jónsson les Einar Helgason.

# Hið sameinaða eimskipafélag.

## Áætlun um strandferðir á Íslandi 1903.

---

### *I. Vestur um land:*

| álholt | 1 | | 2 | | 3 | | 4 | | 5 | | 6 | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B |
| | apr. | maí | maí | júní | júní | júlí | júlí | ág. | ág. | sept. | sept. | nóv. |
| **ykjavík..** | 15 | .. | 13 | .. | 10 | .. | 23 | .. | 25 | .. | 26 | .. |
| avík.... | .. | 10 | .. | 5 | .. | 16 | .. | 21 | .. | 20 | .. | 1 |
| anesi... | .. | .. | .. | .. | 10 | 14 | 23 | 20 | 25 | .. | .. | .. |
| narfirði.. | .. | .. | 13 | 3 | .. | .. | 23 | .. | .. | 17 | .. | .. |
| um..... | .. | .. | 13 | .. | 10 | 13 | 23 | 20 | .. | .. | .. | .. |
| fsvík.... | 15 | 8 | 13 | 3 | 10 | 13 | 23 | 20 | 26 | 17 | 27 | .. |
| ndarfirði. | .. | .. | .. | .. | 11 | 13 | 24 | 20 | .. | .. | .. | .. |
| kkishólmi | 16 | 8 | 14 | 3 | 11 | 12 | 24 | 19 | 26 | 17 | 27 | okt. 30 |
| ummsfirði | .. | .. | 15 | .. | 12 | 12 | 25 | 19 | 27 | .. | .. | .. |
| rðstöð... | .. | .. | .. | .. | 12 | 11 | 25 | 18 | .. | .. | .. | .. |
| ey..... | 16 | 8 | 15 | 2 | 12 | 11 | 25 | 18 | 27 | 16 | 27 | 28 |
| eksfirði . | 17 | 7 | 16 | 2 | 13 | 10 | 26 | 17 | 28 | 16 | 28 | 28 |
| knafirði.. | 17 | .. | .. | .. | 13 | 10 | 26 | 16 | .. | 15 | .. | .. |
| ludal.... | 18 | 7 | 16 | 2 | 14 | 9 | 26 | 16 | 28 | 15 | 29 | 27 |
| afirði... | 18 | 6 | 17 | 1 | 14 | 9 | 27 | 15 | 29 | 14 | 29 | 26 |
| ındarfirði | 18 | 6 | 17 | 1 | 14 | 9 | 27 | 15 | 29 | 14 | 30 | 26 |
| andafirði | .. | .. | .. | .. | 14 | 9 | 27 | 15 | .. | .. | .. | .. |
| ungavík.. | 18 | .. | .. | 1 | 14 | .. | .. | 15 | .. | .. | .. | .. |
| firði..... | 20 | 6 | 18 | 1 | 16 | 9 | 29 | 15 | 30 | 14 | okt. 2 | 26 |
| alvík.... | .. | .. | 18 | maí 31 | 16 | 7 | 29 | 13 | .. | .. | .. | .. |
| rðurfirði . | .. | .. | 18 | .. | .. | .. | 29 | 12 | .. | .. | 2 | 24 |
| kjarfirði . | 20 | 4 | .. | .. | 16 | 6 | .. | .. | 30 | 12 | .. | .. |
| ingrímsfirði | 21 | 4 | 19 | 30 | 16 | 6 | 30 | 12 | 31 | 12 | 3 | 23 |
| rufirði... | 21 | 4 | .. | .. | 17 | 6 | 30 | 12 | 31 | .. | .. | .. |
| ðeyri... | 23 | 4 | 21 | 30 | 19 | 6 | ág. 1 | 12 | sept. 1 | 12 | 5 | 21 |
| ammstanga | .. | 2 | .. | .. | 19 | 4 | 1 | 10 | .. | .. | .. | 18 |
| nduós... | 24 | 2 | 21 | 28 | 19 | 3 | 1 | 10 | 1 | 10 | 5 | 17 |
| agaströnd. | 24 | 1 | 21 | 27 | 19 | 3 | 1 | 10 | 1 | 10 | 5 | 15 |
| ıðárkrók . | 25 | 1 | 22 | 27 | 20 | 2 | 2 | 9 | 2 | 9 | 6 | 14 |
| lkuós.... | .. | .. | .. | .. | 20 | 2 | 2 | 9 | .. | .. | .. | .. |
| fsós..... | 25 | 1 | 22 | 27 | 20 | 2 | 2 | 9 | 2 | 9 | .. | .. |
| ganesvík . | 25 | apr. 30 | .. | 27 | .. | 2 | 2 | .. | .. | .. | .. | .. |
| lufirði... | 25 | 30 | 22 | 26 | 20 | 1 | 3 | 8 | 2 | 9 | 6 | 14 |
| afsfirði... | .. | .. | 22 | 26 | 21 | 1 | .. | .. | 2 | 8 | .. | .. |
| lvík..... | 26 | 30 | .. | .. | 21 | 1 | 3 | 8 | 2 | 8 | 6 | 13 |
| ísey..... | .. | .. | 23 | 26 | .. | .. | 3 | 8 | 3 | 8 | .. | .. |
| alteyri.... | 26 | 30 | 23 | 26 | 21 | 1 | 3 | 8 | 3 | 8 | 6 | 13 |
| reyri..... | 27 | .. | 23 | .. | 22 | .. | 5 | .. | 4 | .. | 8 | .. |
| **ureyri...** | .. | 30 | .. | 26 | .. | 1 | .. | 8 | .. | 8 | .. | 13 |

thugasemd um **strandferðirnar.** Á Búðir, Ólafsvík, Blönduós, Haganesvík, sey, Kópasker, Hornafjörð og Vík koma skipin því að eins, að því verði við komið. rá Reykjavík og Akureyri fara strandskipin jafnan kl. 9 árdegis. Á öðrum stöðum er sá tiltekinn í áætluninni, er skipin megi fara í fyrsta lagi, en félagið ber enga ábyrgð á, þótt þau að tefjast svo, að síðar verði farið. Viðstaðan á millistöðvunum verður svo stutt, semt unt er.

# Áætlun um eimskipaferðir 1903 milli Kaupmannahafnar, Leith, Færeyja og Íslands.

*Frá Kaupmannahöfn til Íslands*

| | 1. Laura | 2. Vesta | 3. Laura | 4. Laura | 5. Ceres | 6. Vesta | 7. Laura | 8. Ceres | 9. Botnia | 10. Vesta | 11. Laura | 12. Ceres | 13. Laura | 14. Vesta | 15. Ceres | 16. Laura | 17. Vesta | 18. Laura |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| frá **Kaupmhöfn** | 13 jan. | 1 marz | 3 marz | 10 apríl | 26 apríl | 8 maí | 26 maí | 9 júní | 20 júní | 30 júní | 7 júlí | 28 júlí | 14 ág. | 6 sept. | 15 sept. | 25 sept. | 13 okt. | 14 nóv. |
| Leith | 17 — | 5 — | 7 — | 14 — | 30 maí | 12 — | 30 — | 13 — | 24 — | 4 júlí | 11 — | 1 ág. | 18 — | 10 — | 19 — | 29 — | 17 — | 18 — |
| Trangisvaag | | | 9 — | 16 — | | 14 — | | 15 — | | | 13 — | | 20 — | | | 1 okt. | | 20 — |
| Thorshavn | 20 jan. | | 10 — | 17 — | | 15 — | | 15 — | 26 júní | 6 júlí | 14 — | 3 ág. | 20 — | 12 sept. | | 2 — | 19 okt. | 21 — |
| Klaksvig | 21 — | | 11 — | 18 — | | 16 — | | 16 — | 27 — | 7 — | 14 — | 4 —* | 21 — | | | 3 — | | 22 — |
| Berufirði | | 9 marz | | | | | | | | 8 — | | sjá aths. | | | | | | |
| Fáskrúðsfirði | | 9 — | | | | 18 maí | | | | 9 — | | | | | | | 21 okt. | |
| Eskifirði | | 10 — | | | | 18 — | | | | 10 — | | 11 ág. | | 14 sept. | | | 22 — | |
| Norðfirði | | 10 — | | | | | | 18 júní | | 10 — | | | | | | | 22 — | |
| Seyðisfirði | | 12 — | | | | 19 maí | | 18 — | | 12 — | | 12 ág. | | 15 sept. | 24 sept. | | 23 — | |
| Vopnafirði | | 13 — | | | | | | 19 — | | 13 — | | | | | | | 23 — | |
| Húsavík | | 14 — | | | | | | 20 — | | 14 — | | 13 ág. | | | | | 24 — | |
| Akureyri | | 17 — | | | | 21 maí | | 23 — | | 16 — | | 15 — | | | 26 sept. | | 26 — | |
| Siglufirði | | 17 — | | | | | | | | 16 — | | | | | | | 26 — | |
| Sauðárkrók | | 18 — | | | | 22 maí | | 23 júní | | 17 — | | 15 ág. | | | 27 sept. | | 27 — | |
| Skagaströnd | | 18 — | | | | | | 24 — | | 17 — | | 16 — | | | | | 27 — | |
| Blönduós | | 19 — | | | | | | | | 18 — | | | | | 28 sept. | | | |
| Borðeyri | | | | | | | | | | 19 — | | | | | | | | |
| Reykjarfirði | | 20 marz | | | | | | | | 20 — | | | | | | | 28 okt. | |
| Ísafirði | | 22 — | | | | 24 maí | | 25 júní | | 21 — | | 18 ág | | | 30 sept. | | 30 — | |
| Önundarfirði | | 23 — | | | | | | | | 21 — | | | | | | | | |
| Dýrafirði | | 23 — | | | | 24 maí | | | | 21 — | | 18 ág. | | | | | 30 okt. | |
| Bíldudal | | 24 — | | | | | | | | 22 — | | | | | | | 31 — | |
| Patreksfirði | | 25 — | | | | | | | | 22 — | | 18 ág. | | | | | 31 — | |
| Flatey | | 26 — | | | | | | 26 júní | | 23 — | | | | | | | | |
| Stykkishólmi | | 26 — | | | | 25 maí | | 26 — | | 23 — | | 19 ág. | | | 1 okt. | | | |
| í **Reykjavík** | 26 jan. | 29 — | 16 marz | 22 apríl | 5 maí | 27 — | 5 júní | 27 — | 30 júní | 24 — | 18 júlí | 21 — | 25 ág. | 18 sept. | 4 — | 8 okt. | 2 nóv. | 27 nóv. |
| **Til Vesturlandsins:** | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| frá **Reykjavík** | 29 jan. | | | | 7 maí | | 7 júní | | 4 júlí | | | | | | | 11 okt. | | |
| Stykkishólmi | | | | | 8 — | | 8 — | | | | | | | | | 12 — | | |
| Flatey | | | | | 8 — | | 8 | | | | | | | | | 12 - | | |
| Patreksfirði | 30 jan. | | | | 9 — | | 9 | | | | | | | | | 13 | | |
| Bíldudal | [illegible] | | | | [illegible] | | | | | | | | | | | | | |
| Dýrafirði | [illegible] | | | | | | | | [illegible] | | | | | | | [illegible] | | |
| Önundarfirði | [illegible] | | | | [illegible] | | | | | | | | | | | | | |

| | 1. Laura | 2. Vesta | 3. Laura | 4. Laura | 5. Ceres | 6. Vesta | 7. Laura | 8. Ceres | 9. Botnia | 10. Vesta | 11. Laura | 12. Ceres | 13. Laura | 14. Vesta | 15. Ceres | 16. Laura | 17. Vesta | 18. Laura |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| **Frá Vesturlandinu** | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| **frá Ísafirði** | 4 febr. | | | | 12 maí | | 12 júní | | 9 júlí | | | | | | | 19 okt. | | |
| Dýrafirði | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| Bíldudal | 5 febr. | | | | | | 13 júní | | | | | | | | | 20 okt. | | |
| Patreksfirði | | | | | | | | | 9 júlí | | | | | | | | | |
| Flatey | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| Stykkishólmi | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| **í Reykjavík** | 7 febr. | | | | 14 maí | | 14 júní | | 10 júlí | | | | | | | 22 okt. | | |
| **frá Reykjavík** | 10 febr. | 3 apríl | 20 marz | 26 apríl | 17 maí | 5 júní | 16 júní | 3 júlí | 12 júlí | 30 júlí | 24 júlí | 27 ág. | 29 ág. | 23 sept | 10 okt. | 24 okt. | 8 nóv. | 4 des. |
| Stykkishólmi | | 4 — | | | | | | | | 31 — | | | 30 — | | | | | |
| Flatey | | 4 — | | | | | | | | 31 — | | | 30 — | | | | | |
| Patreksfirði | | 5 — | | | | | | | | 1 ág. | | | 31 — | | | | | |
| Bíldudal | | 5 — | | | | | | | | 1 — | | | 31 — | | | | | |
| Dýrafirði | | 6 — | | | | | | | | 2 — | | | 31 — | | | | | |
| Önundarfirði | | 6 — | | | | | | | | 2 — | | | | | | | | |
| Ísafirði | | 8 — | | | | 7 júní | | 5 júlí | | 4 — | | | 2 sept. | | 12 okt | | | |
| Reykjarfirði | | | | | | | | | | 4 — | | | | | 13 — | | | |
| Borðeyri | | | | | | | | | | 5 — | | | | | | | | |
| Blönduós | | | | | | | | 5 júlí | | 6 — | | | | | 14 okt. | | | |
| Skagaströnd | | 9 apríl | | | | | | | | 6 — | | | 2 sept. | | 15 — | | | |
| Sauðárkrók | | 10 — | | | | 8 júní | | 6 júlí | | 7 — | | | 3 — | | 16 — | | | |
| Siglufirði | | 11 — | | | | | | 6 — | | 8 — | | | | | 17 — | | | |
| Akureyri | | 13 — | | | | 10 júní | | 8 — | | 10 — | | | 5 sept. | | 20 — | | | |
| Húsavík | | 13 — | | | | | | | | 10 — | | | | | 20 — | | | |
| Vopnafirði | | 14 — | | | | 11 júní | | 9 júlí | | 11 — | | | | | 21 — | | | |
| Seyðisfirði | | 15 — | | | 20 maí | 12 — | | 9 — | | 12 — | | | 6 sept. | | 23 — | | | |
| Norðfirði | | 16 — | | | | | | | | 12 — | | | | | 23 — | | | |
| Eskifirði | | 16 — | | | 21 maí | | | 10 júlí | | 13 — | | | 7 sept. | | 24 — | | | |
| Fáskrúðsfirði | | 17 — | | | 21 — | | | | | 13 — | | | | | 24 — | | | |
| Berufirði | | 17 — | | | | 12 júní | | | | 13 — | | | | | 25 — | | | |
| Klaksvig | 13 febr. | 19 — | 23 marz | 29 apríl | 22 maí | | 19 júní | | 14 júlí | 14 — | 27 júlí | | 9 sept. | 26 sept. | | 27 okt. | 11 nóv. | 7 des. |
| Thorshavn | 14 — | 19 — | 23 — | 29 — | 23 — | | 19 — | | 15 — | 15 — | 27 — | | 9 — | 26 — | | 28 — | 12 — | 8 — |
| Trangisvaag | | | 24 — | 30 — | | | 20 — | | | | 28 — | | | 27 — | | | 13 — | 9 — |
| Leith | 17 febr. | 22 apríl | 27 — | 3 maí | 26 maí | 16 júní | 23 — | 14 júlí | 18 júlí | 18 ág. | 31 — | 1 sept. | 12 sept. | 30 — | 30 okt. | 31 okt. | 16 — | 13 — |
| **í Kaupmhöfn** | 22 — | 26 — | 1 apríl | 7 — | 31 — | 20 — | 27 — | 18 — | 21 — | 22 — | 4 ág. | 5 — | 16 — | 4 okt. | 4 nóv. | 5 nóv. | 20 — | 18 — |

* Frá **Klaksvig** beina leið til **Reykjavíkur**, kemur þangað 7. ág., fer þaðan aftur 9. ág. suður um land til **Eskifjarðar**.

# Hið sameinaða eimskipafélag.

## Áætlun um strandferðir á Íslandi 1903.

---

### *II. Austur um land:*

| Hólar | 1 | | 2 | | 3 | | 4 | | 5 | | 6 | | 7 |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B | A |
| | apr. | maí | maí | júní | júní | júlí | júlí | ág. | ág. | ág. | sept. | sept. | ok[illegible] |
| **Frá Reykjavík...** | 15 | .. | 16 | .. | 10 | .. | 9 | .. | 7 | .. | 4 | .. | [illegible] |
| í Reykjavík..... | .. | 10 | .. | 6 | .. | 4 | .. | 3 | ... | 31 | .. | 29 | .. |
| frá Keflavík..... | .. | .. | 16 | .. | 10 | 3 | 9 | 2 | 7 | 30 | 4 | 28 | . |
| — Vestm.eyjum . | 15 | 8 | 16 | 5 | 11 | 2 | 9 | 1 | 7 | 29 | 4 | 27 | [illegible] |
| — Vík ........ | .. | .. | .. | .. | 11 | 2 | 10 | 1 | 8 | 29 | .. | .. | . |
| | | | | | | | [illegible] | júlí | | | | | |
| — Hornafirði ... | 16 | 7 | 17 | 4 | 12 | 1 | 10 | 31 | 8 | 28 | 5 | 27 | . |
| — Djúpavog.... | 17 | 7 | 18 | 4 | 12 | 1 | 11 | 31 | 9 | 28 | 5 | 26 | [illegible] |
| — Breiðdalsvík.. | 17 | 6 | 18 | 3 | 12 | 1 | 11 | 31 | 9 | 28 | 6 | 25 | [illegible] |
| — Stöðvarfirði .. | .. | .. | .. | .. | 13 | 1 | 11 | 31 | 9 | 28 | .. | 25 | .. |
| | | | | | | júní | | | | | | | |
| — Fáskrúðsfirði . | 18 | 6 | 19 | 3 | 13 | 30 | 12 | 30 | 10 | 27 | 6 | 25 | [illegible] |
| — Reyðarfirði .. | 18 | 5 | 19 | 3 | 13 | 30 | 12 | 30 | 10 | 27 | 6 | 24 | [illegible] |
| — Eskifirði..... | 18 | 5 | 19 | 2 | 14 | 30 | 12 | 30 | 10 | 27 | 7 | 24 | [illegible] |
| — Norðfirði .... | 19 | 4 | 20 | 2 | 14 | 29 | 13 | 29 | 11 | 26 | 7 | 23 | [illegible] |
| — Mjóafirði .... | 19 | 4 | 20 | 2 | 14 | 29 | 13 | 29 | 11 | 26 | 7 | 23 | [illegible] |
| — Seyðisfirði ... | 21 | 4 | 22 | 2 | 16 | 29 | 15 | 29 | 13 | 26 | 10 | 23 | 1[illegible] |
| — Loðmundarf.. | .. | .. | 22 | .. | 16 | 27 | .. | .. | .. | 24 | .. | .. | . |
| | | | | maí | | | | | | | | | |
| — Borgarfirði... | 21 | 2 | 22 | 31 | 16 | 27 | 15 | 27 | 13 | 24 | 10 | 20 | 1[illegible] |
| — Vopnafirði... | 21 | 2 | 22 | 31 | 17 | 27 | 15 | 26 | 13 | 24 | 10 | 20 | 1[illegible] |
| — Bakkafirði ... | 21 | .. | 23 | 31 | 17 | 27 | .. | .. | 14 | 23 | .. | 19 | 11 |
| — Þórshöfn .... | 22 | 1 | 23 | 30 | 17 | 26 | 16 | .. | .. | 23 | 11 | 19 | . |
| — Raufarhöfn... | .. | .. | 23 | 30 | 18 | 26 | 16 | 26 | 14 | 23 | 12 | .. | . |
| — Kópaskeri ... | .. | 1 | 24 | 30 | 18 | .. | .. | 25 | 15 | 22 | 12 | .. | . |
| | | apr. | | | | | | | | | | | |
| — Húsavík..... | 23 | 30 | 24 | 29 | 18 | 26 | 17 | 25 | 15 | 22 | 12 | 19 | 1[illegible] |
| — Flatey ...... | .. | .. | 24 | .. | 19 | 25 | 17 | 25 | 15 | 21 | .. | .. | . |
| — Grímsey..... | .. | .. | .. | .. | 19 | 25 | .. | .. | .. | .. | 12 | 18 | . |
| — Grenivík..... | .. | .. | 24 | 29 | 19 | 25 | 17 | 24 | 16 | 21 | 13 | 18 | 1[illegible] |
| — Svalbarðseyri. | .. | .. | .. | .. | 20 | 25 | 18 | 24 | 16 | 21 | 13 | 18 | . |
| á Akureyri...... | 25 | .. | 25 | .. | 21 | .. | 19 | .. | 18 | .. | 14 | .. | 1[illegible] |
| **frá Akureyri....** | .. | 30 | .. | 29 | .. | 25 | .. | 24 | .. | 21 | .. | 18 | . |

Athugasemd um **ferðir milli landa.** I Vestmannaeyjum verður **komið við** [illegible] suður um land, bæði út og utan, svo framarlega sem því verður við komið. **Eftir komu** [illegible] Reykjavíkur sunnan um land verður einnig komið við í Hafnarfirði (nema í 12. ferð[illegible] nægilegan farm er að flytja þangað. Þegar sömu skilyrði eru fyrir hendi, geta skipin í þe[illegible] komið við á Akranesi, ef því verður við komið og full ástæða virðist til þess. — **Frá** Ka[illegible] höfn fara skipin jafnan kl. 9 árdegis og frá Reykjavík kl. 6 síðdegis. **Á** millistöðv[illegible] fardagur tiltekinn, en farþegar mega búast við, að síðar kunni að verða farið. — Far[illegible] Íslands og útlanda er í 1. farrými 90 kr. (báðar leiðir 160 kr., nema milli Skotland[illegible] 144 kr.) og í 2. farrými 60 kr. (báðar leiðir 100 kr.). Fyrir fæði greiðist á dag í 1 [illegible] og í öðru farrými 2 kr. Hálfu minna fyrir börn.

## EFNISYFIRLIT.

# Jens Hansen,

Vestergade 15, Kjøbenhavn K.

*Stærstu og ódýrustu birgðir í Kaupmhöfn af steypumunum*

## við hæfi Íslendinga.






GEYSISOFN (síbrennandi)
á 20 kr. og þar yfir.




Eldavél á 20 kr.

Sérstaklega mæli ég með *ofnum* með magazínbrenslu, með eldun- hólfi og hristirist eða án þeirra, á **18 kr.** og þar yfir, er fást í meir en 100 mismunandi stærðum. Ennfremur má nefna eldavélar með steikarofni og vatnskatli, 3—5 mjög stórum suðuholum, á **20 kr.** og þar yfir; þær má og fá þannig lagaðar, að þær megi setja niður lausar á mitt gólf með eða án múrhleðslu. Skipseldavélar í þilskip. Skipsofna og eldakompuvélar án múrhleðslu í skip og fiskiskip má fá með eldunarholum og magazínbrenslu. Ennfremur birgðir af steinolíuofnum



GEYSISOFN (síbrennandi) á 35 kr. og þar yfir.




úr járni, kopar og messing, af nýjustu og beztu gerð, sem til er. *Ofnpípur* úr smíða- og steypujárni af ýmsri stærð. Járnglugga í húsþök og byggingar af alls konar stærð. Galvaniseraðar fötur og þvottabalar. Gleraðar og ósmeltar steikarpönnur og pottar. Gleraðar járnkaffikönnur, tepottar, diskar, bollar o. fl.

Yfir alt þetta er til verðskrá með myndum, sem send verður ókeypis hverjum þeim, sem lætur mig vita nafn sitt og heimili.

# Ísland.

Söngur fyrir fjórar ósamkynja raddir.

VALTÝR GUÐMUNDSSON. SV. SVEINBJÖRNSSON.

*Moderato.*

oprano.



ntra alto.



Bariton.
vo lægra.

*Solo. mf*



1. Töfr - a - mynd í At - lanz - ál, enn - is - bjart - a, tign - a móð - ir;
2. fóst - ur - fold, fóstr - an Kjart-ans, Gunn - ars móð - ir,

Bass.



fnaðar
raddir.

*mf*



*pp cresc.*



dýr - ust mynd í son - a sál, sem í hjört - um tendr - ar bál
Ar - a - son - ar móð - ur - mold! margr - ar het - ju blóð og hold

*pp cresc.*



dýr - ust mynd í son - a sál, sem í hjört - um tendr - ar bál
Ar - a - son - ar móð - ur - mold! margr - ar het - ju blóð og hold

*pp cresc.*



dýr - ust mynd í son - a sál, sem í hjört - um tendr - ar bál
Ar - a - son - ar móð - ur - mold! margr - ar het - ju blóð og hold

*pp cresc.*



dýr - ust mynd í son - a sál, sem í hjört - um tendr - ar bál
Ar - a - son - ar móð - ur - mold! margr - ar het - ju blóð og hold



*pp cresc.*



*f* *p*

heitt sem þín - ar Hekl - u glóð - ir! Vér lút - um þér með lotn - ing,
geym - a þín - ar göfg - u slóð - ir. Vér lút - um þér með lotn - ing,

*f* *p*

heitt sem þín - ar Hekl - u glóð - ir! Vér lút - um þér með lotn - ing.
geym - a þín - ar göfg - u slóð - ir. Vér lút - um þér með lotn - ing.

*f* *p*

heitt sem þín - ar Hekl - u glóð - ir! Vér lút - um þér með lotn - ing.
geym - a þín - ar göfg - u slóð - ir. Vér lút - um þér með lotn - ing.

*f* *p*

heitt sem þín - ar Hekl - u glóð - ir! Vér lút - um þér með lotn - ing,
geym - a þín - ar göfg - u slóð - ir. Vér lút - um þér með lotn - ing,

*f* *p*

*f* *p* *cresc. e poco acc.*

lút - um þér, Norð - ur - hafs drotn-ing! Vér elsk - um þig, vér elsk - um þig.
lút - um þér, forn-kapp - a drotn-ing! Vér elsk - um þig, vér elsk - um þig.

*f* *p* *cresc. e poco acc.*

lút - um þér, Norð - ur - hafs drotn-ing! Vér elsk - um, vér elsk - um þig.
lút - um þér, forn-kapp - a drotn-ing! Vér elsk - um, vér elsk - um þig.

*f* *p* *cresc. e poco acc.*

Norð - ur - hafs drotn-ing! Vér elsk - um, elsk - um þig.
forn-kapp - a drotn-ing! Vér elsk - um, elsk - um þig.

*f* *p* *cresc. e poco acc.*

Norð - ur - hafs drotn-ing! Vér elsk - um, elsk - um þig.
forn-kapp - a drotn-ing! Vér elsk - um, elsk - um þig.

*f* *p* *cresc. e poco acc.*

*f a tempo.* *pp*

foss - um og fjöll - um, já fann-bung-um, hraun-um og jökl - un - um öll - um; því
foss - um og fjöll - um og forn - ald - ar minn - um og köpp - un - um öll - um; því

*f a tempo.* *pp*

foss - um og fjöll - um, já fann-bung-um, hraun-um og jökl - un - um öll - um; því
foss - um og fjöll - um og forn - ald - ar minn - um og köpp - un - um öll - um; því

*f a tempo.*

foss - um og fjöll - um, já fann-bung-um, hraun-um og jökl - un - um öll - um;
foss - um og fjöll - um og forn - ald - ar minn - um og köpp - un - um öll - um;

*f a tempo.*

foss - um og fjöll - um, já fann-bung-um, hraun-um og jökl - un - um öll - um;
foss - um og fjöll - um og forn - ald - ar minn - um og köpp - un - um öll - um;

*f a tempo.* *pp*

*mf* *ten. p riten.* **Fyrsta sinni.** **Síðasta sinni.**

þú ert vor móð - ir, } vort minn-ing - a-land. Móð - ir og minn-ing - a-land. land.
þú varst þeim móð - ir, }

*mf* *ten. p riten.*

þú ert vor móð - ir, } vort minn-ing - a-land. Móð - ir og minn-ing - a-land. land.
þú varst þeim móð - ir, }

*mf* *ten. p riten.* *mf*

vor móð - ir, } vort minn-ing - a-land. Móð - ir og minn-ing - a-land. land.
þeim móð - ir, }

*Solo.* Héðins, Grettis

*mf* *ten. p riten.*

1—2. V. vort minn-ing - a-land. Móð - ir og minn-ing - a-land. land.

*mf* *ten. p riten.* *mf*

6.

Barna þinna vona Vár!
vor skal sonareiður þessi:
þér að vinna um öld og ár,
unz í skaut þitt fellur nár.
Drottinn heit vort heyri og blessi!
Vér lútum þér með lotning,
vér lútum þér, framtíðar drotning!
Vér elskum þig með fossum og fjöllum
og framtíðar heitum og vonunum öllum;
því þú ert vor móðir, vort minningaland.
Móðir og minningarland![1]

»Iceland«.

I.

Vision of the northern sea,
Fair thy noble brow is showing;
Dearest form! our love to thee
Burning in our hearts shall be,
Warm as Hekla's fire is glowing.
We tend thee our devotion,
We bend to thee Queen of the Ocean!
|: Our love to thee, :| thy falls and thy fountains,
Thy snow and thy lava, thy Jökuls and mountains;
For thou art our mother, the land of our dreams
mother, the land of our dreams!

6.

Thou inspirest hope to life,
Unto thee our vow we render:
»Thee to serve, for thee to strive
Till our day of death arrives«.
Hear us God in mercy tender!
With faith and veneration,
We bend to thee Queen of our nation.
|: Our love to thee, :| thy falls and thy fountains
Are symbols of Hope with thy Jökuls and mountains;
For thou art our mother, the land of our dreams,
Mother, the land of our dreams!

SV. SVEINBJÖRNSSON þýddi.

[1] Í IX. árg. Eimreiðarinnar bls. 69—70 er kvæði þetta prentað í heilu lagi.

# Seyðisfjörður

um aldamótin 1900.

———

## II. MENN OG HÚS.

Myndin í Eimr. VIII, bls. 197 sýnir mikið vel afstöðu fjarðar og bæjar, og veldur þrískifting hans því, að á honum er fremur lítil bæjarlögun. Við skulum ganga inn fyrir bæinn, þar sem myndin er tekin, og litast þaðan um. Við stöndum þá neðst á miðri myndinni. Að baki er dalurinn og Fjarðarsel en til vinstri handar uppi undir fjallinu er Fjörður, landnámsjörð, og sést hvorugur. Beint fram undan er bygðin á Öldunni fyrir fjarðarbotninum, en fjallið ljósleita á móti, hinumegin við höfnina, er Vestdalsfjall, sem er norðan fjarðar og sést óglögt undir því bygðin á Vestdalseyri, en útnorðurhorn fjarðarins sést ekki. Það bútar myndin af til vinstri handar okkur. Það er þó aðeins örlítill bugur, sem af er skorinn. Til hægri handar, nær suðurfjallinu, er Leiran með hólmunum, og þar rennur Fjarðará út. Þá verður dálítill bugur á suðurströndinni, en utan við hann sést bygðin á Búðareyri vestan og norðan undir bumbunni á Strandartindi, sem þar gengur kolsvört norður utan við höfnina og tekur af alt útsýni út á fjörðinn, því þar ganga þá Vestdalsfjall og hún á víxl fyrir auganu, og verður að ganga góðan spöl út með höfninni að norðan, á leið til Vestdalseyrar, til þess að sjá út á hafið. Strandartindur skyggir og á yzta hluta bæjarins sunnan megin: Ströndina.

Hér skal nú bent á hver helztu húsin eru og hverjir þar búa nú og þar bygðu fyrst, því það vita menn enn þá um öll þeirra undantekningarlaust, og skaði að það týnist með þeim fáu mönnum, sem það vita og enn lifa.

ALDAN. Út með höfninni að norðan, undir Bjólfi, er nokkur bygð í bugnum, sem myndin sker af. Þar yzt er Forni-

stekkur, torfbær, ekki gamall. Góðum spöl innar er Bræðraborg, yzt húsanna, og Hjarðarholt næst. Þar er Sigvaldi póstur, einkennilegur skeggkarl og fer sinna ferða. Þau hús eru hvorugt gamalt Nokkru innar er Lívérpól. Þar bygði Sveinbj. Jacobsen fyrst 1871 og verzlaði þar til '82. Þá keypti Gránufél. húsið og verzlar þar um stund, en reif það og flutti út á Vestdalseyri, þegar hús þess þar brann um 1895. Á þeirri tóft reistu þeir Johansen og Stefán Th. Jónsson það vöruhús, sem nú er þar, og gerðu góða hafskipabryggju fram af; hina einu norðan fjarðar.



Seyðisfjörður.

Imslandsbúð er næst neðan götu og lítil bátabryggja fram undan. Það hús bygði G. A. Jonassen frá Stafangri til verzlunar 1882 og var T. L. Imsland, »kafteinn«, verzlunarstj. hans, en keypti síðan alt saman og hefir nú fengið Lars syni sínum í hendur. Það er lítil verzlun og mest við Færeyinga. Innan við er Skaftabær, lítill torfbær og Skafti gamli í; hann ber vatn fyrir menn og gerir margt þarft, er lágur vexti og vaggar undir vatnsskjólunum og svo góðlyndur, að við hann er enginn maður önugur. Ofan götu er þar Norskabúðin. Hana bygði I. M. Hansen, konsúll, 1881 og verzlaði þar fyrst sjálfur. Svo tók þar við félag frá Stafangri til '87 og seldi þá alt sitt, og keyptu húsin

þeir félagar Sig. Johansen og Thorsten Bryne í Stafangri. Þar mun nú stærst verzlun önnur en Gránufélagið.[1] Johansen er góðmenni en mjög örgeðja eins og margir Norðmenn aðrir en Hansen konsúll.[2] Vöruhús er þar fram undan og bátabryggja.

Þá er langur spölur nær óbygður vestur um útnorðurhorn hafnarinnar og suður með Öldunni alt að litla húsinu, sem nyrzt sést á myndinni og er hesthús Þórarins kaupmanns. Um þetta svæði er þjóðvegur snjóflóðanna, og hann ruddi flóðið mikla 1885 svo rækilega, einkum á sjálfum króknum, að þar byggir enginn hús fremar, því þar á hvert flóð beina braut til sjávar. Þó þar sé verst, er ekkert af svæðinu vel trygt og tæplega hesthúsið. Þar litlu norðar, þar sem myndinni sleppur, hefir Þórarinn þó bygt nýtt vöruhús 1898. Enn norðar stendur þar annað vöruhús hans neðan götu við sjóinn og bryggjustúfur fram af, en þar ofan götu stóð áður mikið hús og var kallað Glasgów. Það bygðu Thomsen og Petræus, danskir menn, 1848 og verzluðu þar til 1859. Þá kaupa húsin Henderson og Anderson, enskir menn, og verzla þar til 1875. Þar var verzlunarstj. Jón Hall, sem nú er á Starmýri. 1875 kaupir V. T. Thostrup Glasgów og hafði fyrir vörur, unz það brann 1898. Glasgów varð fræg fyrir viðureign sína við snjóflóðið mikla; hún klauf flóðið á sér og stóð ein eftir, en flóðið tók af henni syðri endann og bar út á fjörð. Í hinum vóru kol og hann sat fastur, en húsið stóð þar síðan hornskakt og söðulbakað, unz það brann.[3]

---

[1] Nú 1903, hefir Zöllner keypt verzlunina og kvað ætla að leggja hana niður.

[2] Þar úti vóru eitt sinn fleiri hús; eitt var Nóatún, torfbær. Hann keypti Köhler, Norðmaður, gerði þar timburhús og flutti síðan suður yfir fjörð, og heitir það enn Köhlershús fyrir utan Búðareyri.

[3] Þar stóðu áður nálægt króknum 14 hús. Meðal þeirra vóru þessi: Hótel Chr. Thostrups, bróður kaupmannsins. Það stóð norðan við Glasgów. Þorsteinshús, tengdaföður Fr. Wathne's. Hús V. Blöndals, búðarmanns í Norskubúðinni. Þau stóðu hjá læknum. Þar var Vingólf, hús A. Jörgensens bakara og í því hafði Markús Johnsen lyfjabúð sína. Þar var og hús Sigurðar í Alfhól, Grund, Gestshús og Ingólfur. Í honum var barnaskóli.

Þessum húsum öllum og mörgum öðrum, 14 íbúðarhúsum alls, sópaði snjóflóðið burt 18. febr. 1885, kl. 8 um morguninn. og bar út á Leiru. Sumt fólkið var nýklætt, sumt að klæða sig, en sumt í rúmunum þegar flóðið fór að eins og reiðarslag og tók hvern þar sem hann var staddur með húsunum, en kæfði sumt, rotaði eða limlesti. Alt var um garð gengið á fáum mínútum og fólkið í hinum húsunum heyrði aðeins snöggvast eins og þunga dunu, og þegar út var komið var öll Aldan og Leiran eins og í þykku þokukafi eftir snjóflugið. Þá lágu sum húsin mölbrotin

Þá ber næst á myndinni lítið hús í annað lengra. Litla húsið er kallað Reykdalshús. Það stóð áður úti með firði. Það á Þórarinn kaupm. og leigir. Þar vóru fyrst Austri og Skafti, síðar prentsmiðja Bjarka og nú er þar skófélagið. Það félag er tveggja ára og kvað varla »geta gengið« fyrir skóleysi. Langa húsið er Neðribúðin. Hana bygði Jón Árnason, kallaður Arnasen, 1856, hafði áður verzlað 2 ár á Eyrinni (Vestdalseyri), en var þar áður verzlunarstj. Ö. & W. Á Öldunni verzlaði hann undir nafni Knutzons og var það kölluð Neðribúðin til aðgreiningar frá Glasgów, sem var ofar. V. T. Thostrup kaupir af Knutzon 1873, en Þórarinn Guðmundsson af Thostrup 1901. Verzlunin er, að sögn, minni nú en áður, enda telur Þórarinn kaupmaður hina eldri tíma betri, þegar hann var verzlunarstj. í Ólafsvík og einn þar um hituna og engin gufuskip, en seglskipin komu reglulega einu sinni og tvisvar á ári.[1]

Rasmussensbúð er næst og álma vestur úr norðurenda. Þar bygði fyrst hús Teitur nokkur Ingimundarson 1885. Það var tvíloftað og brann síðar. Rofin keypti Finnbogi gestgjafi og gerði úr hús og hafði fyrir billíarðstofu, og er suðurendinn oft kallaður Billíarðinn. Þar í enn nýrri álmu er Brennivínsfélagið, sem fæddist 1899, þegar nýju vínlögin komu. Því stjórnar Jóhann kaupm. Jónsson, því það gat ekki lifað nema bindindismaður stýrði því og það er Jóhann.[2]

---

út á Leiru en sum hálf, svo að þakhlutinn hélt sér nokkuð, og var fólkið að skríða þar út úr og berjast fyrir lífinu í krapahrönninni nakið eða á nærklæðum, menn, konur og börn; því vildi til lífs að fjara var, annars hefði alt farist. Einn af þeim, sem barg sér og sínum með hörkubrögðum, var A. Jörgensen bakari. Þar létust 24 menn. Nafnkendastir þeirra vóru Markús lyfsali og Geirm. Gudmundsson fyrv. verzlunarstj. á Siglufirði. Skaðinn var metinn 55,600 kr. Fjöldi útihúsa fórst og grúi af fiskihjöllum milli Öldu og Vestdalseyrar. Þetta snjóflóð er hér einstakt, enda hafði þá snjóað samfelt í 6 vikur. Snjóflóð eru hér ekki tíð og í 4 ár hefi ég ekki orðið svo frægur að sjá neitt. Húsagrúinn, sem kominn var á þetta svæði, sýnir og að næsta flóð áður hefir verið liðið öllum úr minni. Yfir þessum eina stað er og laut uppi í Bjólfinum, sem snjóhengja getur myndast í. Annarstaðar ekki. Vatnsflóð lítið 13. jan. 1882 skemdi hótel Thostrup's og hús Jónasar Stephensen's, en ekki annað.

[1] Þar milli búðanna efri og neðri var áður lítið hús, sem bókbindari átti. Það fauk í svo kölluðum Pálsmessubyl með manninum í, svo hann beið bana. Það hús var fyrst bygt úr timbri á Seyðisfirði annað en verzlunarhúsin.

[2] Nú 1903 er það fél. dautt og ekki selt brennivín á Seyðisf. nema á »hóteli« Kristjáns og í lyfjabúðinni.

Fram undan Neðribúðinni er hin gamla Tostrupsbryggja. Hún er fræg, þó hún sé ekki stór, því að undanteknum húsum fyrir vörur sínar og bryggjustúfnum, sem stendur út undan efsta húsinu og fyr er nefndur, þá er þetta eina mannvirkið, sem V. T. Thostrup hefir látið eftir sig hér eftir 27 ár og hún er svo, að Ernst lyfsali kvað eitt sinn hafa sagt, að út á hana skyldi enginn maður hætta sér, nema hann hefði trygt líf sitt áður, og sagði hann sumt ósannara. Nú setur Þórarinn þar nýja bryggju þegar minst varir, og því ekki seinna vænna að bjarga minningu Thostrup's og bryggjunnar. Sunnar litlu sér yfir Rasmussen á eitt vöruhús Þórarins. Það er bygt í flæðarmáli og varnar því, að strandgata geti nokkru sinni komið á Öldunni fyrr en það er rifið eða kveykt í því. — Sunnan undir því er bæjarstofnun, þar sem karlmenn geta skotist inn til skjótra þarfinda sinna, og gæti Seyðisfj. verið þar góð fyrirmynd Rvík og hinum borgunum, þar sem allir eru í vandræðum og neyðast til að ganga allra erinda sinna í hvert afdrep sem fæst.

Þá sézt hvítur húsgafl með svartri rönd skamt norður frá lóninu. Það er Bindindishúsið, en svarta röndin sýnir þak á lægra parti, sem leikfélagið hefir bygt aftan við húsið og haft er fyrir leiksvið, er húsið sjálft þá áhorfendasalur. Þar eru og haldnir fundir, tombólur, dansar og guðsþjónustur á vetrum. Þar messaði Bojsen sáluhjálpari, Östlund, Einar Jochumsson o. fl. Húsið er mesta þarfindahús. Þar bak við og ofar á túninu er Hótel Kr. Hallgrímssonar, og ekki á myndinni. Það er laglegt hús og hefir þann kost, að það hefir rúmgóðan billíard- og fundasal, en ekki dugar að gera til þess allar nútíðarkröfur. Þar bak við sjást tvö svört þök lítil og nærri jafnstór koma suður undan. Það nyrðra er Nielsenshús bókhaldara og svila Þórarins kaupm. og mun hann hafa látið byggja það sjálfur. Nielsen er hæstur maður á Seyðisf. Hið syðra er Ingimundarhús. Ingim. er hagsýnn og sparsamur og segja sumir hann eigi peninga. Þetta hús stóð víst úti hjá Norskubúð og var flutt þaðan eftir snjóflóðið. En beint aftur af Bindindish. er Skálanes og ekki á myndinni. Það bygði Jón á Skálanesi 1897 og veitti þar kaffi og óáfengi einn vetur. Nú er það pósthús. Það þekkist á rauðum vindlakassa, sem negldur er þar utan á. Þar er Anna Stephensen póststjóri og hann mörgum betri.[1]

[1] Nú, 1903, er póstafgreiðsla í hinu nýja húsi J. Stephensens innan við Leiruna.

Þar sunnar, nær lóninu, sjást tveir litlir gaflar ljósir. Hinn nyrðri er á útihúsi Stefáns Th. Jónssonar kaupm. en hinn er á hinu gamla íbúðarhúsi hans. Það hús bygðu þeir Stefán og Sig. Johansen upp úr gömlu húsi, sem stóð úti hjá Norskubúð. Í því hafði Chr. Ernst eitt sinn meðalasölu, bróðir Ernst lyfsala, en liðlegur drengur og viðkunnanlegur. Þetta hús á myndinni brann 1898 og kviknaði eldurinn undir loftinu, þar sem Stefán svaf uppi yfir með konu sinni og börnum og munaði litlu, að þau hröpuðu niður í eldinn og hefði þar orðið sá mannskaði, sem Seyðisfj. mátti síst við, því Stefán er hér einn nýtastur manna, fjölhæfur og framkvæmdasamur. Nú hefir hann reist þar nýtt hús, eitt stærsta og myndarlegasta hús í bænum og gæti farið með sóma hvert á land sem vildi, og er þó kvisturinn vel lítill. Þar er búð Stefáns, ursmíðastofa og bústaður hans, þægilegur mjög og prýðilegur. Þar grámatar á lítið hús bak við og sést þó varla nema strompurinn. Það heitir Nóatún. Það átti Kristján Nói (Jónsson), sem síðar keypti Auroru. Nú veit eg ekkert hver á. Það hús stóð áður úti hjá Norskubúð, en flýði með öðrum snjóflóðin.



Hús Stefáns Th. Jónssonar.

Bak við öll þessi hús ber tvö ljós þök hæst við höfnina. Það syðra, með tveim strompum, er Sýslumannshúsið. Um það er girtur garður og grasblettur. Það hús lét Einar Thorlacius reisa eftir að hann kom til sýslunnar 1880, en Jóhannes sýslum. keypti af honum og býr þar nú. Þar er sparisjóður Sfj. og þar var fyrst skrifstofa Bjarka á loftinu. Þar niðri var og Eggert Briem sýslum. meðan hann var settur hér.

Nyrðra húsið er Barnaskólinn bygður 1883, en áður var barnakensla í Ingólfi, sem flóðið tók. Á kvistinum er »Amtsbókasafnið« en bókaverzlun Lárusar Tómassonar niðri.[1] Þar

[1] Nú, 1903, er Lárus og bókverzlun hans komin í nýtt hús, sem hann hefir bygt norður af Sólvangi.

er og salur, kallaður Bæjarþingstofa, og ætti enginn ferðamaður að koma svo á Seyðisfj. að sjá hana ekki. Barnaskólinn skyggir alveg á »Auroru«, sem enginn kallar Auroru heldur »Gamla vertshúsið«. Það bygði fyrst Guðmundur frá Hesteyri í Mjóafirði 1860, en af honum keypti Sigmundur Mattíasson; hann fór til Ameríku og seldi þá Finnboga Sigmundssyni, en eftir dauða hans var þar Kr. Hallgrímsson, og höfðu þeir þar allir veitingar og gistingu. Svo keypti það Kr. Jónsson frá Nóatúni og veitir þar óáfengi.[1] Þar rétt sunnar og líka neðan götu við ströndina er Gamla pósthúsið. Það bygði Rasmussen gamli, danskur, og varð hér fyrstur póststjóri og var það í 25 ár. Húsið erfði svo Rassmussen kaupm. eftir kjörforeldra sína. Hjá þessu húsi er lítill garður, og gróðursett í smátrje, ribs, reynir o. fl. Það er eins dæmi hér. Aftur á móti hefir t. d. Konráð kaupm. í Mjóafirði fengið góðan vísi til trjágarðs. Skamt norður frá húsinu er bryggja Rasmussens, stutt en traust.

Þar gengur gatan vestur úr fyrir sunnan Sýslumannshúsið. Þar sunnan götu við lónið er húsaþyrping. Þar eru fyrst útihús, en svo Gíslahús Jónssonar gullsmiðs. Það stóð áður úti hjá Norskubúð. Gísli hefir bygt við það handa úraverkstæði Friðriks sonar hans. Gísli er hálfbróðir síra Jóns Bjarnasonar í Winnipeg og er mesti snillingur til allra smíða og iðjumaður, en nú mjög lúinn og bagar þó sjónin mest, því annað augað er frá Birni augnalækni og hitt óhægt líka. Þar við lónið er og Smiðjan. Hana á Jens gamli, myndar-karl. Hann járnar hesta og járnar vel. En austustu þökin stuttu, sem ber við höfnina, eru á húsum Jörgensens bakara og standa á sjávarbakkanum. Þar stóð áður bærinn Oddi og enn er þar oft kallað í Odda. Húsið reisti fyrst Nikulás Jónsson, orðlagður hagleiksmaður, bróðir Gísla, og bygði sumpart úr torfi, það bygði upp Hansen konsúll og hafði þar brauðgerð, sódavatnsgerð og súkkulaðis um tíma. Af honum keypti Jörgensen bakari og býr þar, en bakar í litlu húsi vestar á Öldunni.

Þar suður frá á tanganum, milli lónsins og hafnarinnar, eru næst tvö geymsluhús lítil en þá kemur Baldurshagi gamla Imslands. Það hús bygði fyrst Jónas Stephensen, eftir að hans hús skemdist í vatnsflóðinu 1882; síðar keypti Imsland húsið og

---

[1] Nú, 1903. kvað þar vera bæli Austra og Skafta.

er þar einkarvel um hýbýli gengið. Sunnar er hús frú Wiium, ekkju Gísla skálds; það bygði hann sjálfur, en áður bjuggu þau í Tanganum, syðsta húsinu. Það var torfbær og er að nokkru enn. Nú á það hús Magnús Sigurðsson verzlunarmaður.

Fjarðará mæðir nú á oddanum en er að fylla lónið fyrir innan. Það fyllir alt um flóð, svo að nærri verður jafnhátt veginum, og er þar hlaðin upp öll norðurhlið lónsins frá húsunum og vestur á krókinn og vegurinn á brúninni, og er meira gaman að sja



Fjarðarárfoss.

aðra en sjálfan sig ganga þar ójárnaða í hálkum, því hér senda menn ekki stíga né ryðja í snjóum. Þar norðan við krókinn stendur bær Einars Jóhannssonar, lítill torfbær og er ósýnilegur á myndinni. Þar er brú fram undan yfir rás og bæði á henni og öllum flóðgarðinum er háski að ganga í dimmu, því alt er ógirt. Ég man einu sinni að við Páll Snorrason vörubjóður gengum þar um í hlákumyrkri og vórum að tala saman. Veit ég þá ekki fyr til en Páll fer alt í einu að anza mér, eins og neðan úr undirdjúpunum. Hann hafði þá stigið út af brautinni í myrkrinu og niður á Leiru, hæð sína, en sakaði ekki, því fjara var, en mjukt undir. Líklega hefir Jóhann Mattíasson, faðir Einars, bygt bæinn.

Fyrir vestan lónið sést eitt hús með stalli á. Það er

Eyjólfshús Jónssonar ljósmyndara og skraddara, bróður Stefáns. Það hús reisti Gestur beykir Sigurðsson eftir snjóflóðið. Það er neðan götu, en ofan götu er Hrólfshús, yngra en myndin; það létu þeir svilar byggja sér, hann og Þorst. Jónsson kaupm. í Borgarfirði. Þar syðst við ána sést Sólvangur, hús Johansens kaupmanns og útihús norðan við. Þetta hús stendur fegurst í bænum og lét Johansen byggja sér það. Það stendur á fögrum túnbletti og um hann fallegur spalagarður, og hallar öllu



Fjarðarárfoss.

jafnt niður að lóninu og ánni. Johansen á það tún og góða spildu vestur og norður frá sér. Honum einum og O. Wathne seldu eigendur Fjarðarsels land undir hús sín, en allir aðrir hafa að leigu tún sín og hússtæði. En af því land Johansens nær alt á árbakkann, getur bærinn ekki látið gera veg með ánni, en þar gæti verið fegursti skemtivegur inn eftir báðumegin árinnar og myndi vafalaust koma bráðum, ef bærinn stæði þar ekki með bundnar hendur.[1]

---

[1] Nú, 1903, eru komin 4 hús ný vestan lóns: Skófélagshúsið ofan götu sunnar en Eyjólfur, bygt 1901; Læknishúsið milli þess og Hrólfshúss, og syðst Bókaverzlun Lárusar Tómassonar andspænis Sólvangi norðan vegar, en hús Jónasar Stephensens fyrir sunnan Eyjólf neðan götu.

Við komumst nú ekki með ánni og verðum því að krækja veginn upp fyrir Johansen inn bakkann. Þar bak við Johansen göngum við lítinn stíg frá veginum niður að ánni, því þar úti í sjálfri ánni stendur Sútunarhúsið, fyrsta á landinu síðan verksmiðjur Skúla fógeta liðu undir lok. Sútarinn heitir Berg, Norðmaður frá Stafangri, ötull maður og starfsmaður mesti og hefir brotist í gegnum þetta efnalítill með lánum, en trúir fastlega, að þetta geti verið hér góð atvinna og arðvænleg. — Þar innar á bakkanum eiga bæi og hús þeir Teitur Andrésson, Jón Gunnsteinsson, Böðvar og Ólafur ræðumaður, skrítinn karl og orðheppinn.

BÚÐAREYRI. Þá er Aldan búin og höldum við þá út yfir brúna út á Búðareyri. Brúin er neðst á ánni niður við Leiruna. Hún er sýnd á myndinni á bls. 198 (Eimr. VIII). Hér á Fjarðará var fyrst gerð brú eftir 1880. Það gerði Otto Wathne eftir að hann bygði á Búðareyri; það var aðeins gangbrú bygð á staurum, og mun það hafa verið nál. 1890, að ísrek tók hana og fór með sprekin út á fjörð. Þá var brúarlaust með öllu um stund og ferjaði Einar gamli á Ósi menn þá yfir ána, og Ernst lyfsali segist þá hafa reitt gesti sína yfir á sjálfum sér. Þessu mun hafa gengið 2 ár eða 3. Þá skoraði almannafundur á sveitarstjórnina. að brúa ána og varð það úr, að brúarbygging var ákveðin; skyldi það traust brú og tekið lán til. O. Wathne bauð að byggja brúna fyrir 4000 kr. en kvaðst síðan hafa skaðast á byggingunni og fékk 1000 kr. uppbót, án þess hann sýndi þó nokkra reikninga. Það eru því tilhæfulaus munnmæli, sem þó hafa heyrst. að Wathne hafi bygt brúna að nokkru eða öllu fyrir sitt fé.

Á sömu mynd sést gaflinn á næsta húsi á bakkanum. Það er Lyfjabúðin. Hana bygði Ernst lyfsali nál. 1890. Það hus er að því leyti einstakt í bænum, að ekkert er lagað í kring um það, og vaða menn að því aurinn og forina vetur og sumar. Það er og glampaskjótt og hefir verið hálfmálað árum saman. Á Fjarðarmyndinni á bls. 197 (Eimr. VIII) sést á hlið hússins næst ánni. Að baki því norðan við sér á húsgafl. Það er Bjarki, sem kallaður hefir verið, því húsið var bygt handa Bjarka og ritstjóra hans 1897, en austurendann á Árni Jóhannsson, sýsluskrifari. Þar bjuggum við saman um stund Kristján læknir og ég. En bak við þessi bæði sést hús með girðing umhverfis. Það hefir Lars Imsland látið byggja og býr þar. Það er laglegt hús og vel

hirt. Fyrir norðan þessi hús öll sést lítil rák hvít. Það er vegurinn út eftir, en fyrir neðan hann nær sjónum sjást tvö lítil þil saman: Það er Ós, bærinn, þar sem Einar gamli var, en bak við ber við sjóinn hús Jóhanns Jónssonar kaupm. neðan götu. Það bygði Bjarni verzlunarm. Siggeirsson hér á árunum. Þar eru nú komin fleiri hús neðan götu bygð 1900, hús Páls frá Bræðraborg sonar Jóns, og utar hús Guðjóns frá Fornastekk. Smáhýsi fleiri eru komin þar út með víkinni og yzt sunnan götu lítið hús með torfveggjum, sem Guðm. Björnsson á. Ekkert þessara húsa er á myndinni.[1]

Milli Lyfjabúðarinnar og Bjarka liggur akvegur upp að spítalanum. Hann stendur uppi undir brekkunni og sést ekki á myndinni, fallegt hús og rúmar um 20 sjúklinga, en hefir aðeins aðbúnað handa 10. Húsið og vegurinn vóru gerð 1899 af samskotum og ríflegum styrk úr sýslu- og bæjarsjóði.



Spítalinn.

Staka húsið, sem yzt er á myndinni til hægri handar, á Jóhann Sigurðsson verzlunarm. og hefir víst látið byggja. Þar yfir mýrina inn með fjallinu gerði Garðarsfélagið akveg inn að íshúsum, sem það reisti við Dagmálalæk árið 1900. Þau vóru afarstór, tóku mörg þúsund smálestir, en ístjarnir við húsin vóru áætlaðar að geta gefið 30,000 smálestir í flestum vetrum. Það var fyrsta tilraun hér á landi til að flytja út ís, en félagið hætti og sú tilraun líka og húsin verða vafalaust rifin.[2] Þar innar við Hádegisá ætlaði Guðm. Hávarðsson að setja þófaramyllu árið 1897, en skorti efni. Þar stendur lítið hús til minningar um Guðmund. Niðri á árbakkanum litlu utar stendur Álfhóll, lítill torfbær, og hús Árna Sigurðssonar, nýtt. Alt þetta er innar en sést á myndinni.

---

[1] Þar fyrir utan kvað nú, 1903, vera komið dálítið Goodtemplarahús.

[2] Nú, 1903, er búið að selja þau og rífa.

Þá höldum við út á Búðareyri. Þar rennur ofan lækur utanvert við víkina. Það er Búðará. Inst grámatar þar í lítið hús. Það bygði Garðar og er kallað járnhúsið. Því grindin er úr járni og dýrast hús á Íslandi eftir stærð. Á því ætlaði Hermann hinn alræmdi að kenna okkur félögum sínum að byggja hús hér á landi. En hvítu þilin þar framar í brekkunni nær sjónum er Fremstibærinn, torfbær með ágætum túnbletti umhverfis, sem allir vilja eiga. Sá bær hefir staðið nokkuð lengi. Bak við hann grillir í gamla hús Sigurðar múrara, sem Hansen konsúll á nú. og hús Ólafs smiðs, sem selur nú alt sitt og fer til Rvíkur. Þá hefir Sig. múrari reist sér nýtt hús úr steypu og segir hana reynast vel. Öll eru þessi hús í brekkuhallanum ofan götu. En fyrir neðan götuna og úti í sjónum sést löng þakhlið. Það hús er Þórshamar. Þar gátu forðum lagt að stórskip, en af framburði árinnar er-það nú lítt fært. Stórhýsi þetta bygði danskt síldarveiðafélag undir forustu V. T. Thostrups o. fl. 1882. Þetta félag hætti störfum nál. 1890 og keypti þá O. Wathne húsið og hafði fyrir síld og tunnur og eins erfingjar hans nú. Það er afarmikið hús, og mest þakið, áþekt Barónsfjósinu í Rvík.

Þá kemur Garðarsfélagið með hús sín og bryggju. Á þeim stað bygði fyrst Svendsen, Norðmaður, 2 hús 1880. Annað brann '84 en Pöntunarfél. Fljótsdæla keypti hitt '85. Það lamdist í aurskriðu og rytjuna notaði það í hina gömlu búð sína utar á Eyrinni. En hús Garðars, sem Hansen býr í nú, bygði Pöntunarfél. úr viði, sem Bindindisfél. Seyðisfj. pantaði og ætlaði sér í hús, og verzlaði þar um stund til þess er það færði sig út eftir. en Hansen keypti húsið 1897 og seldi síðan Garðari. Það fél. bygði þar utan við íshús og tvö vöruhús og öll stór og bryggju fram undan öllum, þá mestu hér á landi. Hún kostaði milli 30 og 40 þús. kr.[1] Ekkert af þessu er komið þegar myndin er tekin. aðeins sést Hansenshús yfir Þórshamar ofan til.

Næsta stórbyggingin sem sést, líka að nokkru úti í sjónum. er kölluð í daglegu tali »Angróin«. Það var aðalbryggja O. Wathne's. Þar bygði O. W. fyrst fyrir félag eitt í Björgvin 1880 og áttu þar mest í Jens Gram o. fl. Wathne keypti svo húsin og bygði bryggju 1885. Þar hafði hann stórverzlun sína '95 og þaðan er nafnið. Þar eru afarmikil stakkstæði með járnbrautar-

---

[1] Alt þetta hefir nú bærinn keypt 1903, og leigir gufuskipafél. hús og bryg-

teinum á og ná neðan götu alt út að Wathne'sbúð, sem nú er. Þak hennar ber yfir Angróhúsin á myndinni. Fram af búðinni er lítil bryggja og bryggjuhöfuðið barkskip, sem þar er fest við og geymd í kol. Húsið og bryggjuna mun O. W. hafa látið gera um 1894, og eru þau merkileg að því leyti, að þau ein mannvirki mun Otto Wathne hafa gert hér fyrir eigið fé auk íbúðarhúss síns og viðbótarinnar við Angróna og Madsenshús. Verzlun hans hefir alt af verið lítil og mest við vinnulið sitt og Færeyinga og gengið á tréfótum þangað til nú síðustu árin. Þar upp undan sjást á myndinni tvö hús og hið neðra með kvisti og garði um kring. Það er Wathne'shús, myndað á bls. 198 (Eimr. VIII). Það er myndarlegt hús með öllum þægindum, t. d. vatnsleiðslu í eins og járnhús Garðars og spítalinn. Það lét O. W. byggja nál. 1890 og bjó þar síðan og Fr. Wathne eftir hann og Guðrún ekkja O. W., þegar hún dvelur hér. Efra húsið er hús Carls Wathne, nýtt hús.

Þá sjást næst tvær burstir lágar fast saman. Þau hús kallast Gamla kompaníið. Þar hefir aurskriða runnið fram hvað eftir annað og húsin nær sokkin að þökum, en nafnið stafar af því, að þau hús bygði Jacobsen & Co frá Mandal 1868 að því er segir í skýrslu Trolle's kapteins, sem hann gaf stjórninni um félög á Sf. og prentuð er í stj.t. Jacobsen og þeir fél. vóru frumherjar og frömuðir síldarveiða hér á Austfjörðum, og það gaf svo Otto Wathne og öðrum dugandi Norðmönnum og Íslendingum áræði til að feta í þau spor, sem það hafði gengið á undan þeim, því þetta fél. hefir verið hér þrautseigast allra manna að síldarveiði og selur loks O. Wathne hús og bryggju 1895. Jacobsen verzlaði líka með timbur.

Þá sést einstakur húsgafl utar og nær sjónum. Það er gamla Pöntunarfélagsbúðin og bryggja fram af og alt saman kallað vanalega Pöntunin, bæði húsið og félagið, en lyfsalinn (Ernst) kallar það »Punteselskabet« á sínu máli. Þar upp af fyrir neðan götuna hefir Jón í Múla látið byggja nýtt hús fyrir verzlunina og kallað í Múla og svo ætlar hann að kalla, hvar sem hann býr. Það er fallegt hús, en sést ekki á myndinni, líklega ekki til þá, bygt '99? En gömlu húsin og bryggjuna bygði Jacobsen & Lund, síldarveiðafélagið frá Mandal, sem fyr er nefnt, 1868, að því er Sigurður bóndi í Firði segir og afsals- og veðbréfabækur kaupstaðarins, en Pöntunin keypti alt saman 1892. Á þeirri bryggju

hefir margur félegur sauður skift um þjóðerni og hætt að vera Íslendingur. Þar upp af sést Steinholt. Það er gistihús og veitingar óáfengar. Þá er búin Búðareyri og þó ótalin fáein smáhýsi.

Þar fyrir utan kemur lítil vík, Forvaðavík, nú oft nefnd Vatnavík, því þar bygði O. Wathne lítið hús 1868 eða 9, til að stunda frá síldarveiði, en hætti svo við. Þar hjá bygði Hakon Madsen frá Stafangri síðar hús og er alt saman því oft kallað Madsenshús, en O. W. hefir aukið við hús og bryggjur og lét vinnulið sitt hafa þar aðsetur. Þetta sést á myndinni og ber bryggjubarkurinn í húsin. Yzt á Oddanum sést Köhlershús, sem áður er getið.

---

Húsin á Ströndinni hylur Strandartindsbungan. Þau flest bygðu Norðmenn um og eftir 1880. Nagelshús reisti Nagel frá Haugasundi. Þar er nú stórskipabryggja. Oanes bygði eitt. Það á nú Síldarfél. Seyðisfj. »Flísafélagið«. Eitt bygði Falk, annað Sömme. Þau eru rifin, en á hússtæði Falk's er nú Frosthús Imsland's, og þar sem Imsland'shús standa nú, bygði G. A. Jonassen frá Stafangri Síldarhús 1880, Þar bygðu og Thomsen og Berentzen 1880.

Þá er komið á hreppsendann hér, og fáum við okkur þá bat og bregðum okkur snöggvast yfir fjörðinn til Vestdalseyrar, því Einar Hallgrímsson verzlunarstjóra verðum við að sækja heim, hans líki heim að sækja er ekki á hverjum firði.

---

VESTDALSEYRI. Þar verður varla greint á myndinni nema kirkjan og búð Gránufélagsins. Það er stóra húsið niðri við sjóinn. Þar er fram af væn bátabryggja. Þar ríkir Einar Hallgrímsson og mun nú hafa einna mesta verzlun hér. Hann er drengur góður og höfðingi heim að sækja.

Þar á Eyrinni bygðu þeir Örum & Wulff fyrst verzlunarhus 1851, og kaupa þá landið undir húsin og Eyrina þar í kring um sig. Þeir vóru áður á Eskifirði. Á Eyrinni reka þeir verzlun til 1865. Þá kaupa húsin Thomas Roys og Liljendal, hvalfangarar frá Ameríku og veiða hér hvali um 2—3 ár. Af þeim kaupir þa Hammer, danskur hvalfangari, og ætlar að halda því áfram, en

varð lítið úr, og 1872 kaupir Gránufél. húsin og byrjar þar verzlun ári síðar og er þar enn við góðan þrifnað.

Af öðrum húsum má nefna kirkjuna og Glaðheim. Kirkjan var færð frá Dvergasteini á hjallann yfir Eyrinni, en fauk þaðan og er nú hér komin, ekki ósnoturt hús. Glaðheimur veitir óáfenga drykki. Það er tvíloftað hús, gamalt og frægt. Þórarinn smiður var fyrsti gestgjafi á Vestdalseyri, en þetta hús mun Ól. timburm. Ásgeirsson hafa bygt nál. eða rétt eftir 1880 og veitti þar um mörg ár og síðan Einar »vert«. Nú eru þar Skafti og Austri.[1] Fyrir utan ána er hús Magn. kaupm. Einarssonar. Þar var verzlun hans og úrsmíðastofa. Hann er nú í Færeyjum. Þetta hús bygði Nikulás Jónsson smiður. Þar bjó O. W. Smith fyrsti sýslumaður, sem sat hér á Sf., og Böving eftir hann. Það er því bygt fyrir 1864. Hvorugt þessara húsa sést á myndinni og ekki heldur Grúðahús þar utar. Það bygði Sandnæs Olsen nál. 1880 og þar verzlaði I. K. Grude.

---

Þetta eru helztu hús og mannvirki á Seyðisfirði og sett hér til skýringar myndinni. Ártöl eru og færð til víðast, svo hver, sem vill, geti séð sögu bygðarinnar hér. Eins og menn sjá, hefja útlendir menn bygð hér eftir miðja öldina, en aðalinn allan byggja Norðmenn um 1880, en innlendir menn koma síðastir. Þetta nýja landnám er merkilegt og alveg einstakt hér á landi, síðan landnámunum fornu lauk. Skýrslan er höfð hér nokkuð ýtarleg með vilja, svo aðgangur væri að þessu á einum stað. En þetta er tínt saman úr skrifum og minni manna ekki síður en bókum, og menn því beðnir að afsaka það, sem missagt kann að vera. Mikið vona ég kveði ekki að því.

---

BÆJARLÍFIÐ. Lífið í þessum húsum og meðal þessara manna, sem nú hefir verið getið, er auðvitað svipað því, sem er í hinum bæjunum, sviplítið fremur og ekki fjölbreytilegt. Menn berjast mest hver í sínu horni fyrir sér og sínum hér sem annarstaðar og láta sem minst til sín taka í félagslífinu. En mannjöfnuður sá, sem getið var í inngangsorðum þessarar greinar, veldur því, að umgengni öll manna á milli er hér liðlegri og

[1] Síðar komnir í »Auroru« á Öldunni.

frjálsmannlegri en hún getur verið á þeim stöðum, þar sem bæjar- eða embættisaðall situr innan sinna múra og breiðir um sig hefðardaun, en hefir ekki öðru ágæti að treysta en aðalsgirðingunni, sem verndar þá fyrir augum borgaranna. Hér getur enginn neinu slíku treyst til vegs og virðingar, og það er aftur vafalaust ein af orsökunum til þess, að menn leita sér sæmdar í framkvæmdum og dugnaði meira hér en annarstaðar, þegar miðað er við efni manna. Öll er umgengni hér þó kurteis og gestrisni er meiri hér á Seyðisfirði en víða annarstaðar, því hér eru mörg hús, þar sem maður getur varla komið svo inn fyrir dyr að ekki sé eitthvað boðið, kaffi, bjór. eða vín, og það þó maðurinn sé alt annað en sjaldsénn gestur. Norðmýlingar eru í heild sinni gestrisnir menn bæði í Fjörðum og á Héraði, svo að ég hefi ekki þekt það betra annarstaðar og tæplega eins. En þetta sýnist þó vera hér á Seyðisfirði fremur bæjarbragur en arfur, þvi þeir eru engu síðri í þessu, sem hér eru ekki innbornir. Þessi gestrisni hér er með fullri alúð og hefir beztu áhrif á alla samvinnu. Menn tala þá saman um málefni og fyrirtæki kunninglega en einarðlega og úr þessu verður þó dálítið samlíf, sem aldrei næst með þurrum og stirðgengum fundarhöldum, því þangað koma Seyðfirðingar albrynjaðir eins og aðrir og skilja vanalega samvizkurnar eftir heima, þeir sem þær eiga.

Að öðru leyti er andlegt líf eða samlíf hér lítið og fræðitölur á kvöldum eða sunnudögum nær ókunnar, nema eitthvert aðskotadýr biðji um Bindindishúsið, sem þó sjaldan er. Á vetrum hafa menn sér það helzt til skemtunar að koma hver til annars og spila eða tefla; eru þá 4 og 4 saman t. d. um lomberspil og koma saman eitt kvöld í viku og sitt kvöldið hjá hverjum. Það er vel til fundið og tiltölulega kostnaðarlítið. Þetta munu flestir menn gera hér, bæði verzlunarmenn og verkmenn, og er góður siður og saklaust að fylgja honum til þess, er önnur öld finnur annan betri.

Hótellíf er hér fremur lítið og er það nokkuð að kenna bæði húsnæði og fyrirgreiðslu. Þó er töluvert leikið hér við hnattborð og gæti þar verið bezta samkunda, því þar sézt örsjaldan ölvaður maður. Þar hafa nú undanfarna vetur verið haldnir spila- og dansfundir og verið góð skemtan. Af félögum hafa leikfélagið og kvenfélagið verið þau einu, sem nokkuð hafa gert til þess að stytta mönnum veturinn. Leikfélagið hefir leikið hér um jólaleyt-

ið, oft mörg kvöld og tekist oftast mikið fremur vel og hefir það slitið vel í sundur skammdegið. Hæfileikar til leikmensku hafa þó ekki komið hér fram, sem sérstök ástæða sé til að nefna. Kvenfélagið »Kvik« hefir og haldið skemtanir tvo síðustu veturna og farist vel, verið fjörmeira og auðugra að tilbreytingum en aðrir hafa áður verið, og hefir það félag orðið vinsælt, að minsta kosti tala karlmennirnir vel um það.

Þá halda heldri konur bæjarins, giftar og ógiftar, hér barnahátíð hvern vetur og hafa lengi haldið. Er þangað boðið öllum börnum ríkra manna og óríkra og hefir þar oft verið saman komið um og yfir 100 barna, og hafa þau skemt sér vel við dans um jólatré, gjafir og veitingar, en fullorðna fólkið hefir horft þar á börnin og hvað á annað og gert sér hátíð úr. Blysgöngur og álfadans eru hér oft á Gamlárskvöld eða Þrettánda og oft kostað töluverðu fé til og er góð skemtun. Skautasvell er hér ekki til nema lítið og ilt á ánni og nota börn það eftir mætti. Árið sem leið léðu Garðarsmenn ístjarnir sínar til skautaleika, og getur þar orðið hinn bezti skautaís og verður vonandi notaður.

Kannske má telja það til skemtana að menn fara hér mjög á vetrum til rjúpnadráps og kalla »að fara á skyttirí«. Þær skemtanir sækja ýmsir rosknir menn og börn, sem úr byssu kunna að hleypa. Arðurinn er fremur lítill og því ber að telja þetta til skemtana. Vængskotnar og fótlamaðar eða sárar rjúpur verða því hér eins og annarstaðar árangurinn af því, að börn og viðvaningar fara með byssur.

Leikfimi hafa ungir menn töluvert æft hér suma vetur og hefir verið góð skemtan að horfa á þá leika listir sínar. Þar hafa þeir leikið liðlegast Friðrik Gíslason úrsmiður, Rolf Johansen og Sigurður Jónsson og leikið svo þróttmikið og fimlega að gott var í hvern stað, einkum leikur þeirra Friðriks og Hrólfs. Jörgensen bakari hefir kent hér leikfimi og að líkindum komið henni hér á gang. Hann er hraustmenni og fimur.

Bezt af öllum skemtir hér á vetrum sunnanáttin þegar hún kemur. Hún breytir á einu dægri 12—14 stiga frosti í 9 stiga hita, og menn ganga út snöggklæddir og berhöfðaðir til að fagna henni, eins og þar kæmi vor eða vinur. Norðanveðrin eru ekki eins skemtileg. Þau koma ýmist innan úr dalnum og sópa öllu lauslegu sem fyrir verður út á fjörð, eða þá úr landnorðri fyrir austan Bjólf niður Vestdal og Hrútahjallana, og eru það köll-

uð Hrútahjallaveður og eru hér óvinsælust veðra, því þau hafa það sér til gamans, að brjóta hús og hjalla og sýna mönnum hverninn Stafangurs- og Mandalstimbrið er í sárið. Af því fjöllin eru há og skörðótt er hér misvindi mikið og svipir oft æðimargir.

Það spillir mikið samgöngum hér manna á milli á vetrum, að hér er þá mjög illfært um bæinn. Götur hafa hér ekki verið ruddar hingað til, enda er það dýrt, þar sem vegir eru svo langir. Þó ríður um þverbak þegar dimt er á kvöldum, því hér eru enn þá ekki komin nein götuljós og má þó vel kalla vegi hér sumstaðar full hættulega bæði lífi og limum, og að þessu er því meiri ófögnuður hér en víða annarstaðar, að hér eru settir hlerar fyrir hvern glugga undir eins og dimma fer, og því ekki svo vel að ljósskíma þaðan sé til liðs á götunni. Hlerarnir eru nauðsynlegir vegna stormanna, því mölin dynur eins og hagl um húsin og rúðum því mjög hætt og dæmi til jafnvel, að menn hafa fengið bjálkaenda til sín inn í stofu gegnum veggina, þegar mest hefir gengið á; en af þessu leiðir að Seyðisfjarðarbær er oft nokkuð skuggalegur eftir dagsetur.[1]

Dansleika hefir og fólk til skemtunar sér stundum og í rauninni lítið meira á vetrum en á öðrum tímum, og er eins og sú leikfýsi komi i menn í hviðum eða hríðum, því stundum rekur hver dansleikurinn annan í Bindindishúsinu, en stundum líða langir tímar á milli. Thostrup hafði hér forðum dansskóla á hóteli sínu nál. 1883. Þar var A. Jörgensen kennari. Nú kennir víst hver öðrum einhvern veginn, því allir sýnast kunna. Þá lesa menn og heima sér til skemtunar og víst engu minna hér en annarstaðar. Alþýða er sér í útvegum um bækur, að því sem föng eru á, bæði fornar sögur og nýjar og annað, sem á íslenzku er til fræðslu og skemtunar. Margir skilja og dönsku, og hér hefir þessi árin verið tiltölulega fjölment lestrarfélag og kynt menn þo dálítið ýmsu, sem nýtt hefir birzt í sagnaskáldskap Dana og Norðmanna. Rímna- eða kvæðavini þekki ég hér ekki nema Teit Andrisson, verkmann; hann er mjög náttúraður fyrir slíkt og kann sjálfur gríðarmikið. Nokkrir menn hafa haft hug á að eiga hér málfundi sín á milli, en ýms atvik hafa hamlað framkvæmd þeirrar fyrirætlunar alt til þessa. Þegar svo nefnd er guðsþjónusta.

---

[1] Nú, 1903, eru komnir 3 lampar á göturnar, þar sem mest þurfti.

sem hér er oft í Bindindishúsinu á vetrum, þá mun vera talin helzta dægrastytting, sem menn hafa sér hér á vetrum nú um aldamótin.

Sumarskemtanir manna hér eru líka mjög fábreyttar og veldur því mest, að við erum hér í þröngnm fjallakvíum, og eigum að sækja yfir langa og erfiða fjallvegi, hvert sem út úr firðinnm er farið á landi. Hestaeign er hér afardýr og launar illa kostnaðinn, þar sem varla verður riðið annað en lítinn spotta inn í dalinn eða út með firði ógreiðan veg. Og þó eiga menn hér hesta vonum meira og þá góða suma. Sýslumaður, Jón í Múla og Jóhann Vigfússon eru hér reiðmenn fræknastir, síðan Snorri Wiium dó. Fleiri eiga hér hesta og ríða einstöku sinnum til gamans inn í annanhvorn dalinn eða út á Eyri. Oft fara menn hér fleiri eða færri saman einu sinni eða tvisvar á sumri upp yfir heiði skemtiferð upp í Hallormsstaðarskóg eða annað, og þjóðminningardagar á Egilsstöðum hafa verið fjölsóttir hér neðan að. Á sjó fara menn sér fátt til skemtunar og skemtisiglingar eru hér lítið æfðar, en fiskiveiðafélagið, sem Imsland veitir forstöðu, hefir látið gufuskip sín flytja bæjarmenn ókeypis smá gamanferðir á sumrin til næstu fjarðanna og er bezti greiði.

Kaffidag heldur kvenfólkið hér oftast á sumrin, fer þá með kaffi og mesta góðgæti hér upp í Botna og býður mönnum til. Þetta er víst sérstakleg skemtun á Seyðisfirði og oftast glöð stund og góð. Ekki hafa karlmennirnir enn þá fundið upp neinn slíkan dag handa kvenfólkinu, og er það merkilegur gáfnaskortur.

Sitthvað gera menn sér til gamans, sem er reyndar smátt, en fjörgar þó og lífgar daglega amstrið. Margir fara hér með öngla sína og færi út á fjörð við og við og er það meira til hressingar en hagsmuna. Síðara hluta sumars fer fjöldi manna með stengur sínar inn í Fjarðará og veiðir silunga og er góð hressing. Þar er inst foss í ánni og mikill hylur undir og veiðisæll. Sund hefir verið lítið tíðkað hér. Munu fáir hafa kunnað það og þeir þá numið það erlendis, svo sem Jörgensen bakari og Hrólfur Johansen. Þó var fyrir nokkrum, árum bygð hér tjörn uppi undir fjalli og skotið fé saman til, en í fyrra tók bæjarstjórnin að sér málið og lagði fé fram til sundkenslu, og er það mál því nú í bezta horfi og kennari ráðinn. Hjólhestar sjást hér á götunum og ríður Stefán Th. Jónsson mest, en Eyjólfur bróðir

